# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XXXVI. ÁRGANGUR

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**

Winnipeg, Canada


FIVE ROSES
All Purpose
FLOUR
7 LBS. WHEN PACKED
FIVE ROSES FLOUR
FIVE ROSES FLOUR
THE ALL PURPOSE FLOUR
LAKE OF THE WOODS
MILLING COMPANY
CANADA
IT'S OVEN TESTED
a Guide to GOOD COOKING
COMPILED BY THE MAKERS OF
FIVE ROSES FLOUR

# IN MEMORIAM

## HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephansson, skáld
Frú Stephanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
**Árni Pálsson, prófessor**
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson
Dr. A. H. S. Gillson, U. of M. President
Einar Jónsson, myndhöggvari, Reykjavík, Ísland

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1954

## A. Heiðursverndarar

His Excellency the Right Honourable Vincent Massey, landstjóri Canada
His Excellency the Right Honourable The Earl of Athlone, K.G.
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.

## B. Heiðursfélagar

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, New York
Prófessor Halldór Hermannsson, Cornell University, N. Y.
Prófessor Sigurður Nordal, sendiherra Íslands, Kaupmannahöfn
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Sydney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Þorst. Þ. Þorsteinsson, rithöfundur, Gimli, Man.
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld, Winnipeg, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Akureyri, Ísland
Jónas Jónsson, fyrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D.C.
Dr. Rúnólfur Marteinsson, Winnipeg, Manitoba
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
J. J. Bíldfell, Winnipeg, Manitoba
Árni G. Eylands, Reykjavík, Ísland
Gunnar B. Björnsson, Minneapolis, Minnesota
Vilhjálmur Þór, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. John C. West, forseti Ríkisháskólans í North Dakota, Grand Forks, N.D.
Próf. Ásmundur Guðmundsson, biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Prófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, aðalræðismaður, Stokkhólmi, Svíþjóð
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor emeritus, Saskatoon, Sask.
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, dómari, Rugby, North Dakota
G. J. Oleson, Glenboro, Manitoba
Einar P. Jónsson, ritstjóri Lögbergs, Winnipeg, Manitoba
Stefán Einarsson, ritstjóri Heimskringlu, Winnipeg, Manitoba
Dr. Stefán Einarsson, prófessor, Baltimore, Md.
Einar Sturlaugsson, prófastur, Patreksfirði, Ísland

**C. Styrktarmeðlimir 1954**

Mr. og Mrs.
Davíð Björnsson
Winnipeg, Man.

Próf. Finnbogi
Guðmundsson
Winnipeg, Man.

Mr. Th. J. Gíslason,
Morden, Man.

Mr. Thorsteinn S.
Mýrman,
Steep Rock, Man.

Mr. Björgúlfur Sveinsson
Winnipeg, Man.

Mr. Haraldur Ólafsson,
Mountain, N.D.

Mrs. Th. Jónsson
Winnipeg, Man.

Miss Sæunn Bjarnason,
Gimli, Man.

Mr. og Mrs.
Guðmann Levy
Winnipeg, Man.

Mr. Grettir Leo Johannson
Winnipeg, Man.

**D. Ævifélagar**

Árni Sigurðsson,
Seven Sisters, Man.

Dr. Helgi P. Briem,
Consul Gen. of Iceland,
Stockholm, Svíþjóð

Grettir Leo Jóhannsson,
Icelandi, Danish Consul
Winnipeg, Man.

Dr. P. H. T. Thorlakson,
Winnipeg, Man.

Gunnar R. Pálsson,
New York, U. S. A.

Grettir Eggertson,
Winnipeg, Man.

Hon. K. Valdimar
Björnsson,
Minneapolis, Minn.
U. S. A.

J. W. Jóhannsson,
leikhússtjóri,
Pine Falls, Man.

Rev. P. M. Pétursson,
Winnipeg Man.

Guðmann Levy,
Winnipeg, Man.

Anna Margrét Levy,
Winnipeg, Man.

Eric Ísfeld,
Winnipeg, Man.

Mrs. B. E. Johnson,
Winnipeg, Man.

**E. Ársfélagar**

1. CANADA

**Árborg, Man.**
Solveig S. Johnson

**Árnes, Man.**
Mrs. Guðrún Johnson
Þorsteinn Sveinsson
S. J. Thorkelsson

**Benalto, Alta.**
Jóhann M. Hillman

**Brandon, Man.**
Dr. E. J. Skafel
Dr. Friðrik Fjelsted

**Camp Morton, Man.**
Þorsteinn Sveinsson

**Cypress River, Man.**
Stefán Eiríksson

**Eriksdale, Man.**
Mr. og Mrs.
Chris Halldórsson

**Frobisher, Sask.**
Hjörtur Bergsteinsson

**Gimli, Man.**
Miss Sæunn Bjarnason

**Hayland, Man.**
Sigurður B. Helgason
Ólafur Magnússon
Geirfinnur Pétursson
Mr. og Mrs. Freeman Halldórsson

**Hnausa, Man.**
Hildibrandur J. Hildibrandsson
Sigvaldi Vídal
Miss Sigurrós Vídal
Rögnvaldur S. Vídal
Miss Sigurrós Anna Vídal

**London, Ont.**
Christian Sivertz

**Markerville, Alta.**
Mrs. Rósa S. Benediktson
Jakob K. Stephanson

**Montreal, Que.**
Mrs. H. L. Robson

**Osland, B.C.**
Kristján Einarsson
Friðrik Kristmansson

**Otto, Man.**
Mrs. Guðr. G. Eyjólfsson

**Piney, Man.**
Mrs. B. E. Björnsson
Kristinn Norman
Victor Freeman
Skafti V. Eyford
P. S. Pétursson
Mrs. Emma Thorvaldson
Jón Ásmundson

**Red Deer, Alta.**
Ófeigur Sigurðsson

**Riverton, Man.**
Friðrik P. Sigurðsson
Mrs. S. O. Thompson
Skúli Skúlason
Mrs. K. S. Benedictson
Pétur Jónsson

**Siglunes, Man.**
Davíð Eggertsson
Miss Guðbj. Eggertsson
Ásmundur Freeman

**Skeena River, B.C.**
Fríða Phillipson

**Tantallon, Sask.**
Helgi Vigfússon

**Toronto, Ont.**
Einar I. Svanbergsson
J. Ragnar Johnson

**Vancouver, B.C.**
Mrs. Kristjana Anderson
Magnús Elíasson
Mrs. Matth. Friðriksson
Mrs. H. S. LeMessurier
Mrs. Anna Matthíasson
Thor Guðmundsson
Miss Dóra Davidson
Bjarni Sveinsson

**Victoria, B.C.**
Dr. J. P. Pálsson

**Vogar, Man.**
Björn Eggertsson
Framar Eyford
Tómas Guðmundsson
Mrs. Unnur Hallson
Mrs. Ingibj. Eggertsson
Mrs. Óli Johnson

Miss Margrét Lambertson
Óli Johnson
J. Eyford
Jónas Johnson
Lestrarfél. „Herðubreið"
Magnús Jóhannesson
Björn Johnson
John S. Johnson
Óli Johnson
Óskar Johnson
Páll Jónsson

**Wapah, Man.**

Mrs. Fritz Erlendson

**Westbourne, Man.**

Mrs. Lára Sveinsson

**Winnipeg, Man.**

Mrs. Sigríður Árnason
Mrs. Jónína Christie
Mrs. Gyða Hurst
Jónas Thorvarðarson
Mrs. S. Kjartansson
Mrs. Arnheiður Eyjólfsson

**Wynyard, Sask.**

Jakob J. Norman

2. BANDARÍKIN

**Alexandria, Va.**

Leifur Magnússon

**Arlington, Va.**

Mrs. J. Sigmundsson

**Baltimore, Md.**

Dr. Stefán Einarsson
Málfríður Illugadóttir Carnes
Hildur Guðlaugsdóttir Dunbor

**Berkeley, Calif.**

Próf. Sturla Einarsson
Rev. S. O. Thorlakson

**Blaine, Wash.**

Mrs. Kristín F. Líndal

**Boston, Mass.**

Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Kórmakur Ásgeirsson
Einar Barnes
Ari Bjarnason
Kapt. Jóhannes Björnsson
Valgeir Einarsson
Andrés Guðmundsson
Kapt. Thor Guðmundsson
Jónas Hallgrímsson
Björn D. K. Haralz
Kapt. Gunnl. Illugason
Kapt. Guðm. Jóhannsson
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theódór Jónsson
Guðmundur Pálsson
Pálmi M. Sigurðsson
Snorri Einarsson
Jakob J. Thorvaldson
Kapt. Óskar Gíslason

**Bottineau, N. Dak.**

Óskar B. Benson
Albert Árnason

**Buena Park, Calif.**

Mrs. J. Gillis

**Cambridge, Mass.**

Próf. Francis P. Magoun, Harvard College Library
Próf. Taylor Starck

**Chicago, Ill.**

Emil Beck
Sigurthor M. Hinrickson

**Clarkfield, Minn.**

Mrs. Jóhann Gunnlaugson

**Cismont, Va.**
Próf. Frederic T. Wood

**Cottonwood, Minn.**
H. B. Hofteig

**Davis, Calif.**
Dr. V. S. Ásmundsson

**Fargo, N. Dak.**
W. A. Myrdal
Próf. Th. W. Thordarson

**Grand Forks, N. Dak.**
University Library

**Huntington Park, Calif.**
Dr. Paul V. Jameson
Miss Ellen Jameson

**Ithaca, N. Y.**
Cornell University Library

**Jackson, Mich.**
Andrew H. Palmi

**La Kota, N. Dak.**
Einar Johnson

**Lincoln, Nebr.**
Próf. Joseph Alexis

**Los Angeles, Calif.**
Gunnar Bergman

**Minneapolis, Minn.**
Ásmundur Bjarnason
Björn G. Björnsson
Hjálmar Björnsson
Guðmund Peterson
Gunnar S. Bardal
Rev. Sveinbjörn Ólafsson

**Minneota, Minn.**
Gunnar S. Bardal
Sr. Guttormur Guttormsson
Einar Hallgrímsson
S. Frank Josephson
J. P. Ísfeld
Jóseph Jósephson
John A. Johnson
John L. Johnson
Jón Metúsalemson

**National City, Calif.**
John S. Laxdal

**New Brunswick, N. J.**
Rutger's University Library
Prófessor Helgi Johnson

**New Haven, Conn.**
Próf. Adolph B. Benson
Yale University Library

**New Ulm., Minn.**
Hon. A. B. Gíslason

**New York, N. Y.**
Edvard Frímannsson
Garðar Gíslason
Jón Guðbrandsson
Hannes Kjartansson
Gunnar Magnússon
Dr. E. Thorláksson
Ólafur Johnson

**Oklahoma City, Okla.**
Ólafía Jóhannsdóttir Mansfield

**Park River, N. Dak.**
Theodore Eyjólfsson

**Philadelphia, Penn.**
Próf. Axel J. Uppvall
Dr. Caroline Brady

**Poulsbo, Wash.**
Mrs. H. F. Kyle

**Princeton, N. Y.**
Próf. R. V. Lindebury

**Rugby, N. Dak.**
Dr. Chr. G. Johnson

**San Diego, Calif.**
J. K. Steinberg

**Seattle, Wash.**
Mrs. Margrét Benedictson
Jóhann Straumfjörð

**St. Paul, Minn.**
Minnesota Historical Society

**Taunton, Minn.**
Clark Árnason

**Topeka, Kans.**
J. B. Linderholm

**Toppenish, Wash.**
Mrs. Bergþóra Benedictson

**Virginia, Minn.**
Magnús Magnússon

**Washington, D.C.**
John M. Echols
Mrs. Mekkin S. Perkins
Mrs. Shirley Block

**Williamsburg, Va.**
Próf. Jess H. Jackson

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

ÞRÍTUGASTI OG SJÖTTI ÁRGANGUR, 1954

Ritstjóri: Gísli Jónsson




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi
1955

# Myndirnar

Bls.



PRENTAÐ HJÁ THE COLUMBIA PRESS LTD., 695 SARGENT AVENUE, WINNIPEG

# Efnisyfirlit

# Einar Páll Jónsson

ritstjóri og skáld



Er sjötíu og fimm ára á þessu ári (1955). Hann er víst elzti starfandi ritstjóri meðal íslendinga, með fleiri starfsár að baki en nokkur annar — um eða yfir fjörutíu ár — og siglir enn fullum seglum.

EINAR P. JÓNSSON:

# Hver var hún?

Hún hvarf mér eins og drottning draumarjóð
í dagsins hyl, er nóttin bráðkvödd varð.
Mér fannst það mikið fyrir skildi skarð,
sem skelfing allífs nísti hold og blóð.
Í daginn fram hún seiddi söngvamögn,
svo svanaröddin varð að dauðaþögn.

Hún var að eðli stolt og stærilát,
en stoltið hvarf við glaum í sollsins hóp;
hún mynntist jafnt við stút og stjörnuglóp,
varð stundum dauðahrygg og æðiskát.
En röddin átti æðri heima vald,
sinn eigin bjarma, tign og lausnargjald.

Hún lagði á háls, en fann ei forna slóð
í fáti því, er eltir dæmda sál,
og skildi ei lengur algengt mannamál
né máttinn, sem í vegi hennar stóð.
Hún hafði drukkið beizka banaveig
í berjalaut úr grænum vasafleyg.

Í kvöldsins ró við rökkri hjúpað svið
og roðann hinzta, sem í vestri dó,
hin mikla drottning skalf og skellihló
í skýli sínu út við sáluhlið.
Hún stóð þar eins og úthverf erfðasynd
í eigin dýrð hin nakta beinagrind.

Ég heyri ennþá óm af hennar söng
og aldaþjáning, sem að baki lá;
hún birtist mér sem dýrðleg draumaspá,
með dásemd raddar stytti kvöldin löng.
Hvort mennsk hún væri maður neinn fékk séð
í martröð hitasóttar dúns á beð.

DR. J. P. PÁLSSON:

# Krossgötur

*Leiksýning í þremur þáttum*

PERSÓNUR

*Ásvaldur* (einbúi)
*Kýminn* (förumaður)
*Jón*
*Sveinn*
*Björg*
*Dísa*
*Auðunn*
*Steinn*

## FYRSTI ÞÁTTUR

*Leiksviðið*

Rjóður í risavöxnum frumskógi. Gamlir stofnar vitna um, að það var rutt fyrir mörgum árum; og hefir nýr skógur vaxið upp, nema á blettinum, sem svarar leiksviðinu. Á því miðju stendur vegvísir með fjórum álmum letruðum, og vísar hver þeirra á gangstíg út milli trjánna.

Aftast til hægri partur af stafni á bjálkakofa og dyr á. Í baksýn rísa trjátoppar frumskógarins yfir nýgróðurinn, sem vaxið hefir upp síðan rjóðrið var rutt, og lokar útsýn til hægri og vinstri. Fossniður í fjarska. — Jón og Kýminn standa við vegvísinn og lesa letrið á álmunum.

*Kýminn* — Bölvuð ekki sins vitleysa er þetta. Eins og allar götur liggi ekki til Rómu.

*Jón* (les) — Til glaums og gleði. — Herra trúr! Hver mundi ekki vilja stefna þangað? (Les) Til vits og vilja. — Hvað skyldi það meina? (Les) Til hjálpar bágstöddum. — Ekki langar mig þangað.

*Kýminn* — Og því ekki?

*Jón* — Ég, staurblankur — nema.

*Kýminn* — Nema hvað?

*Jón* — Nema ég færi þangað og einhver yrði til þess, að hjálpa mér.

*Kýminn* — Hjálpaðu þér sjálfur, greyið mitt.

*Jón* — Hvernig þá?

*Kýminn* — Líttu bara á mig, Jónsi minn, mig flækinginn. (Fer ofan í vasa sinn og kemur upp með handfylli af silfurpeningum).

*Jón* — Peningar! Má ég skoða þá?

*Kýminn* — Auðvitað peningar. Heldurðu að ég gangi með rusl í vösunum? (Fær Jóni silfrið).

*Jón* — Skæra silfur! (Handleikur peningana).

*Kýminn* — Bara silfur í dag. Ef til vill gull á morgun, ef lánið reynist mín megin.

*Jón* — Silfur og gull — og þú flækingur.

*Kýminn* — Teningarnir fara ekki í manngreinarálit.

*Jón* — Þú átt þó ekki við fjárhættuspil?

*Kýminn* — Hvað annað? Lánið er aðeins þar, sem hættan er annars vegar.

*Jón* — En ég kann ekkert fjár-

hættuspil. (Skilar Kýmni silfrinu).

*Kýminn* — Blessaður vertu! Það útheimtir engan lærdóm. (Stingur silfrinu á sig, og kemur upp með tvo teninga). Sjáðu nú til. Nú kasta ég þessum teningum og sé lánið með mér, koma háu númerin upp. (Kastar teningunum. — Báðir aðgæta úrslitin). Svei attan! Tveir og tveir eru fjórir.

*Jón* — Er þetta öll kúnstin?

*Kýminn* — Nei. Þetta er einfaldasta aðferðin og bezt fyrir þig, sem ert að byrja. Ég veðja tuttugu og fimmsenting, og nú kastar þú. Ef hærri tala en fjórir koma upp hjá þér, vinnur þú tuttugu og fimm sentinginn.

*Jón* — En ef ég fæ minna en fjóra?

*Kýminn* — Þá vinn ég jafn mikið af þér.

*Jón* — En ég á ekki eitt sent.

*Kýminn* — Þá lána ég þér, til að byrja með. (Þeir krjúpa, og Kýminn leggur tvo tuttugu og fimm sentinga á milli þeirra). Nú kastar þú Jónsi. (Fær Jóni teningana).

*Jón* — (Kastar). Fjórir og fimm eru ellefu!

*Kýminn* — Þú vinnur. Lánið er með þér í dag.

*Jón* — Ég veðja öllu. (Kastar. — Þeir þreyta leikinn þar til Jón hefir unnið alt silfrið, sem hann stingur í vasa sinn).

*Kýminn* — Þú gleymdir, að borga mér lánið, Jónsi.

*Jón* — Á-já. Viltu ekki að við köstum einu sinni enn, fyrir tuttugu og fimm sent?

*Kýminn* — Nei, Jónsi minn. Ég þarf þeirra með, næst þegar ég freista gæfunnar.

*Ásvaldur* — (Kemur út úr kofanum og veitir þeim eftirtekt. — Jón réttir Kýmni tuttugu og fimm senting). Hvað leikið þið?

Kýminn (Hann og Jón standa upp). Teningskast. Og lukkan er öll með honum Jónsa hérna.

*Jón* — Ég skil bara ekkert í þessu. Áðan allslaus, og nú með fulla vasa af peningum.

*Kýminn* — Í svipinn ertu óskabarn gæfunnar. Ég í gær, þú í dag. Lánið er dutlungafull kenjakind.

*Ásv.* — Ekki er það rétt grundað. Eins og alt annað lýtur það lögum náttúrunnar.

*Kýminn* — Og mesta kenjakindin er náttúran.

*Ásv.* — Okkur finst það, af því við skiljum hana ekki.

*Kýminn* — Eins og nokkur lifandi maður skilji hundakúnstir tilverunnar!

*Ásv.* — Í leit sinni eftir sannleikanum, komast vísindamennirnir smásaman nær og nær því, að skilja öll fyrirbrigði náttúrunnar, að meðtöldu þessu, sem lán eða lukka kallast. —

*Kýminn* — Og er ekkert annað en tilviljun.

*Ásv.* — Einu gildir hverju nafni það nefnist. Stærðfræðin gerir grein fyrir því.

*Kýminn* — Ég hefði gaman af, að sjá stærðfræðinga vinna peninga af honum Jónsa í dag. Eða nota þeir ekki teninga til að stúdera dutlunga tilverunnar?

*Ásv.* — Til þess nota þeir talrúnir.

*Jón* — Ég vil læra talrúnir, svo ég geti unnið peninga af öðrum.

*Kýminn* — Mikið blessað barn ertu, Jónsi minn. Talrúnir! Hvílík endemis vitleysa.

*Ásv.* — Stærðfræðin er ekki til þess, að auka vinninga í fjárhættuspili.

Jón — Til hvers er hún þá?

*Ásv.* — Hún er ein grein vísindanna, ein leiðin í sannleiksleit mannanna.

*Kýminn* — Einn krókurinn enn. Eins og þeir villist ekki nóg, þó þeir leiti ekki eftir nýjum villigötum.

*Jón* — En hvað um þennan vegvísi? Ekki ættum við að villast, fyrst við fundum hann.

*Ásv.* — Nei, enginn er viltur meðan hann stendur á vegamótum.

*Jón* — En hann vísar í allar áttir. Hverja götuna á ég að ganga héðan?

*Ásv.* — Sama í hvaða átt þú ferð, ef þú endist til að halda stefnunni.

*Kýminn* — (Starir á Ásv.) Þú ert sá mesti spekingur, sem ég hefi fyrirhitt á lífsleiðinni.

*Jón* — Ég botna ekkert í þessu. Eru þetta talrúnir?

*Kýminn* — Nei, nei, Jónsi minn. Þetta er það, sem ég er altaf að troða í þig, að allar götur liggja til Rómu.

*Jón* — Það skil ég ekki heldur. Ég þarf líklega að fara í skóla og læra að skilja hlutina. Við hverja götuna er bezti skólinn?

*Kýminn* — Þar er enginn skóli öðrum betri. Allar götur liggja til Rómu, og þar er öll heimsins speki.

*Jón* — (Lítur spurnaraugum til Ásv.) Er þetta satt?

*Ásv.* — Já, það er talsvert til í því.

*Jón* — Fari ég, til dæmis, götuna til glaums og gleði?

*Ásv.* — Þá verður þú með fjöldanum, því þar er gatan greiðust og mest að sjá, mest að læra og skilja.

*Jón* — En ég vil ekki verða einn með fjöldanum. Ég vil vera meira, verða ofar fjöldanum, komast lengra og hærra en nokkur annar.

*Kýminn* — Þú kemst aldrei lengra né hærra en til Rómu, eins og við hinir.

*Ásv.* — Það er eitthvað í þig spunnið, drengur minn. Lestu vegvísinn með gaumgæfni, og farðu svo þína leið.

*Kýminn* — Já, farðu þína leið eftir öllum götum. Það hefir mér reynzt bezt.

*Jón* — Ég ætla mér ekki, að verða flækingur eins og þú, Kýminn. Ég tek stíginn til vegs og valda. Verið sælir. (Fer).

*Kýminn* — (hristir höfuðið) Mikið bölvað þanþot er í ungviðinu.

*Ásv.* — Æskan er ör. Guð blessi hana.

*Kýminn* — Satt er það. Ég ætti að muna mína daga. En hvað hefst þú að hér í skóginum?

*Ásv.* — Bý hérna í kofanum mínum og lifi.

*Kýminn* — Og vísar ungviðinu til vegar.

*Ásv.* — Það er kallað svo.

*Kýminn* — Eiginlega sýndist mér þú vísa honum Jónsa, greyinu, á flæking.

*Ásv.* — Hann er og verður á flækingi hvort eð er. Allir eru á flækingi eftir þinni lexikon.

*Kýminn* — Allir nema þú.

*Ásv.* — Ég flækist meira og minna með þeim, sem ég vísa til vegar.

*Kýminn* — (Truflaður). Og heldur hér þó kyrru fyrir.

*Ásv.* — Flækingur er ekki bundinn við ferðalög.

*Kýminn* — Þetta er deginum sannara. Æ, ég vildi ég mætti flækjast með þér.

*Ásv.* — Það er guðvelkomið.

*Kýminn* — Og sitja um kyrt hér í skóginum? Er ekki svoleiðis einmana líf leiðinlegt?

*Ásv.* — Líf einstaklingsins er ekki einmanalegt, þar sem líf náttúrunnar ólgar og svellur alt í kringum hann, eins og hérna í trjánum og grasinu og blómunum, flugum, fiðrildum og alls konar skorkvikindum, og fuglum, sem byrja og enda daginn með söng. Jafnvel fossinn, sem er skamt héðan, hefir hlaupið og sungið frá ómunatíð eins og hann væri heillifandi.

*Kýminn* — Ja, nú blöskrar mér. Hvernig getur nokkur maður haft samfélag við svoleiðis dót, nema það lítið af því, sem ætt er? Þetta er alt á svo langtum lægra stigi en mennirnir.

*Ásv.* — Hvort eitt eða annað, sem lífið hrærist í, er á háu eða lágu stigi, veit sá einn, sem vakti efnið til lífs.

*Kýminn* — (Vandræðalegur). Eftir því eru þá allir menn á sama stigi — auðmaðurinn og öreiginn, vitfirringurinn og spekingurinn, góðmennið og glæpamaðurinn, flakkarinn og iðjumaðurinn. Nei, berið þið nú frá mér á spýtu.

*Ásv.* — Ekkert er líklegra en það, þó enginn geti fært sönnur fyrir því, nema hann skilji hin hinztu rök.

*Kýminn* — (Tekur höndunum um ennið). Svei mér ef mig snarsvimar ekki (riðar) yfir allri þessari speki.

*Ásv.* — Ósköp er á mér! Þú ert náttúrlega dauðsoltinn. Og hér gaspra ég, í stað þess að gera þér eitthvað gott.

*Kýminn* — (Tekur um kviðinn). Líklega gutlandi, glorhungraður. Og þetta veizt þú. Eftir þetta trúi ég hverju þínu orði.

*Ásv.* — Farðu inn í kofann. Það er kaffikanna við eldinn, og þú finnur matarbita í koffortinu við dyrnar.

*Kýminn* — Guð launi þér greiðann — en hvað heitir maðurinn?

*Ásv.* — Ég heiti Ásvaldur. Og þú?

*Kýminn* — Það veit enginn og allra sízt ég. Ég er kallaður Kýminn, en það er bara uppnefni.

*Ásv.* — Jæja, Kýminn minn, láttu nú ekki lengur dragast, að fá þér bita.

*Kýminn* — (Snýr til dyranna). Ásvaldur — Ásvaldur. (Fer inn í kofann).

*Ásv.* — (Horfir eftir honum). Nei. Ég verð að sjá um að maðurinn fái í sig. (Fer inn í kofann).

(Sveinn og Björg fátæklega og létt-klædd koma inn frá vinstri. Hlusta).

*Sveinn* — Heyrir þú klukkurnar, Björg? Ekki heyri ég neitt.

*Björg* — Nei, ekki eitt einasta dingaling.

*Sveinn* — Við finnum aldrei bölvaðar beljurnar í þetta sinn.

*Björg* — Gott! Þá losna ég við mjaltir í kvöld.

*Sveinn* — Þetta er annars leiða

lífið. Reka kýr, sækja kýr, elta kýr, hirða kýr. —

*Björg* — Mjólka kýr. —

*Sveinn* — Kýr, kýr, kýr að eilífu.

*Björg* — Amen.

*Sveinn* — Amen.

*Björg* — (Skellihlær). Já, er það ekki gaman? Og þetta kallar þú leiðinlegt líf.

*Sveinn* — Ég finn þetta ekkert hlátursefni.

*Björg* — (Gripin hlátri svo hún skilst varla). Kýr — kýr — kýr — að eilífu — ei-ei-lífu — Amen.

*Sveinn* — Þú hlærð og hlærð, og það stundum þegar mér er mest gramt í geði.

*Björg* — Ég hlæ þegar við erum tvö ein. Það er svo gaman. —

*Sveinn* — Gaman að hlæja að mér.

*Björg* — Ég hlæ ekki að þér. Ég veit ekki að hverju ég hlæ.

*Sveinn* — Þá ertu auli. Þú ert auli, leitar að kúm, sem þú vildir helzt aldrei finna og hlærð svo að öllu saman.

*Björg* — Þarna kemur það, (Hlær).

*Sveinn* — Hvað nú?

*Björg* — Þetta sem ég hlæ að.

*Sveinn* — Þú hlærð að vitleysunni í sjálfri þér.

*Björg* — Þá er ég líka vitur.

*Sveinn* — (Hristir höfuðið). Við megum ekki slæpast hér lengur, heldur reyna að hafa upp á beljunum.

*Björg* — Og villast kannski.

*Sveinn* — Nú, þá það.

*Björg* — Væri annars ekki gaman, að villast svolítið — og fara á flakk, eins og hann Kýminn?

*Sveinn* — Ekki væri það betra en leita að kúm.

*Björg* — Jæja. Hvernig væri þá, að byggja sér kofa í skóginum, eins og hann Ásvaldur?

*Sveinn* — Nei. Það er af og frá. Heldur vil ég leita. —

*Ásv.* — (Kemur út úr kofanum). Komið þið blessuð.

*Björg* og *Sveinn* — Komdu sæll, Ásvaldur.

*Ásv.* — Hvað eruð þið að fara?

*Björg* — Við vitum það ekki. Veit nokkur hvert hann er að fara?

*Sveinn* — Gengdu henni ekki. Hún hlær eins og fífl og segist vilja villast og fara á flæking. Við erum að leita að kúnum og finnum þær ekki. Ekki vænti ég að þú hafir orðið þeirra var?

*Ásv.* — Nei. Því miður ekki.

*Björg* — Gott! Þá getum við farið að villast.

*Sveinn* — Svona lætur hún alltaf, eins og bjáni.

*Ásv.* — Hafið þið athugað vegvísinn minn?

*Sveinn* — Ég kannast vel við hann, en ekki vísar hann okkur á kýrnar.

*Björg* — Þá skulum við fara eftir honum.

*Sveinn* — Og villast í leitinni! Þú ert söm við þig.

*Ásv.* — Þeir leita bezt sem villast mest.

*Björg* — Þetta hefi ég altaf sagt. Við skulum bara villast og hætta að hugsa um beljurnar. Þá erum við hárviss, að finna þær.

*Sveinn* — Þið eruð búin að rugla mig svo, að ég verð að fara eftir vegvísinum.

*Ásv.* — Hann mun ekki svíkja þig.

*Sveinn* — En hann vísar í fjórar áttir.

*Björg* — Í allar áttir.

*Ásv.* — Alveg rétt, Björg; því æskunni eru allir vegir færir.

*Björg* — Er þetta satt?

*Ásv.* — Dagsatt, sé hún í leit.

*Björg* — Kúaleit?

*Ásv.* — Það gildir einu hvers leitað er.

*Sveinn* — Þá er bezt að halda kúaleitinni áfram. Henni er ég vanastur. En hver leiðin er greiðust héðan?

*Ásv.* — Leiðin til glaums og gleði. Á henni villist enginn.

*Sveinn* — Eigum við þá að taka hana?

*Björg* — Ekki ég. Ég vil villast.

*Ásv.* — Þá leið fer allur fjöldinn, því hún er breið og greiðfærust. En þú einn verður að finna fótum þínum forráð.

*Sveinn* — Ekki vil ég fara leið fjöldans.

*Björg* — Hæ, gaman! Sveinn vill villast eins og ég. (Hlær).

*Kýminn* — (Æstur. Hendist út úr kofanum, með brauðsneið í annari hendi en ketbita í hinni, og fullan munninn). Æ, góði Ásvaldur, mér varð sú béuð skyssa á —

*Ásv.* — Kærðu þig kollóttan. Láttu í þig matinn og svo getur þú talað við mig.

*Kýminn* — Ég missti alt kaffið ofan í koffortið og eyðilagði sykrið og guð veit hvað fleira.

*Björg* — Þarna sér þú það, Sveinn. Allir hlutir villast, auk heldur blessað kaffið.

*Sveinn* — Ég ætti líklega að taka stefnuna til vegs og valda.

*Kýminn* — Allar götur liggja til Rómu.

*Björg* — Þá flýtur dýsætt kaffið þangað. Ég vildi, að ég væri orðin að þessari Rómu.

*Kýminn* — (Nálgast Björgu). Þú ert stúlka eftir mínu skapi. Getur hent gaman að mótlætinu. (Ásvaldur og Sveinn afsíðis talast við hljóðlega).

*Björg* — Mótlæti? Segðu mér hvað það er, svo ég geti hlegið að því.

*Kýminn* — Stundum köllum við það sorg, þó það sé nú eiginlega gleði.

*Björg* — Það skil ég ekki.

*Kýminn* — Það er lífið — sem enginn skilur.

*Björg* — Lífið? Er það ekki þetta, sem kemur mér altaf til að hlæja?

*Kýminn* — Jú, jú. Og þá er alt gott.

*Sveinn* — (Kallar). Ég er að leggja upp til vits og vilja, Björg, ætlarðu að koma með mér?

*Björg* — (Til Kýmins). Hvert liggur sú leið?

*Kýminn* — Í allar áttir.

*Björg* — (Hlær — kallar). Nei, Sveinn, þangað vil ég ekki villast. Þú ert vís til að finna kýrnar.

*Sveinn* — Þú ræður því. — Verið sæl. (Fer).

*Ásv.*, *Björg* og *Kýminn* — Far vel.

*Björg* — (Horfir á eftir Sveini). — Hvert fer hann?

*Kýminn* — Í allar áttir, auðvitað.

*Björg* — Hann fer æfinlega í allar áttir. Þess vegna er hann svo

skemtilegur. En því skildi hann mig eftir?

*Ásv.* — Þið mætist aftur.

*Kýminn* — Farðu sjálf í allar áttir, og þá hljótið þið að finnast. Allar götur liggja til Rómu.

*Björg* — (Hlær). Þú ert líka skemtilegur. En ég þarf að ná í hann Svein. (Lítur spurnaraugum til Ásvaldar). Verið sælir. (Fer götuna sem vegvísirinn bendir eftir til hjálpar bágstöddum).

*Ásv.* og *Kýminn* — Far vel og góða ferð.

*Ásv.* — Góð stúlka.

*Kýminn* — Kát og greind.

*Ásv.* — Já, víst er hún gáfuð. Hún ætlar sér að leita gæfunnar í eymd annara.

*Kýminn* — Eins og stórveldi og iðnhöldar?

*Ásv.* — Nei, Kýminn minn, þú veizt betur.

*Kýminn* — Ég þarf ekki lengur að vita annað en það sem þú veizt.

*Ásv.* — Hvernig heimfærir þú það?

*Kýminn* — Þú mótmælir ekki því, sem aðrir segja, og sannfærir þá þó.

*Ásv.* — Hver maður verður að láta sannfærast af sjálfum sér; og svo er með alt sem lifir.

*Kýminn* — Til dæmis kóngar og köngulær?

*Ásv.* — Já, og þú mátt bæta jurtunum við. Ekki sækja þær sannfæring sína til annara.

*Kýminn* — Nú gengur alveg fram af mér. Ég eins og kóngur, eins og könguló, eins og njóli, eins og — en hvert ætti ég að fara?

*Ásv.* — Fara? Hefir þú ekki þegar farið veg allrar veraldar?

*Kýminn* — En þessi vegvísir þinn? Er hann mér gagnslaus?

*Ásv.* — Hann bendir bara á, að hér eru vegamót. Og jafnvíðförull maður og þú ert, ætti að vita, að þú ert á vegamótum, hvar og hvenær sem þú staldrar við.

*Kýminn* — Þá er þýðingarlaust fyrir mig, að ferðast lengra. Æ, má ég ekki setjast hér að, hjá þér í kofanum? Ég get legið á gólfinu.

*Ásv.* — Jú, blessaður vertu. Þú getur dorgað silung undir fossinum, prangað út jólatrjám í þorpinu og keypt okkur smávegis, sem við þörfnumst með. En mest er um vert, að þú vísir þeim til vegar, sem hér fara um, ef ég gefst upp.

*Kýminn* — Jú, jú. — Nei, nei. Ég get veitt og flækst inn í þorpið og prangað þar og prúttað; en að standa hér og vísa þeim, sem viltir eru, í allar áttir — það er ekki fyrir mig og mína líka.

*Ásv.* — Þú þarft ekki að mæla orð, aðeins benda þeim á vegvísinn.

*Kýminn* — Það væri nú alt gott og blessað, væri ég eins gerður og þú. En þó ég þyldi upp alla speki og allan vísdóm þessa heims og annars og benti í allar áttir, hefði enginn gagn af því.

*Ásv.* — Hvernig veiztu það fyrr en á reynir?

*Kýminn* — Nú, ég er bara flakkari, en þú ert Ásvaldur.

*Ásv.* — Og kóngurinn er jafn köngulónni. (Verður litið út í skóginn til vinstri). — En þarna koma tveir herramenn.

*Kýminn* — Ætli þeir séu líka að villast?

*Ásv.* — Já, það getur þú reitt þig á.

*Kýminn* — Og þú vísar þeim leið?

*Ásv.* — Ég get bent þeim á vegvísinn.

*Kýminn* — Og svo leggja þeir upp — í allar áttir.

*Ásv.* — Ekki á ég von á því. Herramaðurinn stefnir ætíð í eina átt. Þess vegna er hann herramaður. Hann veit ekki að áttirnar eru fleiri en ein, veit ekki að hann er að villast eins og hinir. Hann heldur sömu stefnu hvað sem tautar.

*Kýminn* — Þá hefi ég verið herramaður alla mína æfi, grunaði aldrei að ég væri að villast.

*Ásv.* — Ættir þú þá ekki að halda flakkinu áfram?

*Kýminn* — Nei, Ásvaldur, að vera herramaður er ekkert sældarbrauð.

(Auðunn og Steinn koma frá vinstri — móðir og sveittir).

*Auðunn* — Við erum víst búnir að þramma heila mílu gegnum kargaskóg.

*Steinn* — Já, ekki keyrir neinn hingað í bíl. En það er gróðavon í svona stórfeldum skógi. (Til Kýmins og Ásv.) Hvað eruð þið að flækjast hér?

*Kýminn* — Flækjast! Við eigum heima hér í kofanum, og ættum að leggja þessa spurning fyrir ykkur, sem álpist hingað líklega í einhverju menningaróráði.

*Ásv.* — Hér hefi ég átt heima meirihluta æfinnar. Rölti inn í þorpið mánaðarlega og geng upp að fossinum á hverjum morgni.

*Auðunn* — Er hann langt héðan?

*Ásv.* — Það er misjafnt. Tæp hálftíma ganga þegar vorið hvíslar kjarki í alt sem lifir og morgunroðinn lýsir upp hug og hjarta og fuglarnir syngja. —

*Steinn* — Getur hvorugur ykkar talað orð af viti? Hvað er langt upp að fossinum og hvernig kemst maður þangað?

*Kýminn* — Gangandi, herrar mínir. Bara gangandi.

*Ásv.* — Þegar fuglarnir eru flognir og haustvindarnir slíta síðustu laufin af greinum trjánna. —

*Auðunn* — Hvað langt? sagði ég.

*Ásv.* — Eins og sjálft lífið fjari út með liðnu sumri. —

*Steinn* — Hvað langt!?

*Ásv.* — Þá er það býsna spölur.

*Auðunn* — (Hristir höfuðið). Þekkir þú fossinn?

*Ásv.* — Nei. Fossinn er vinur minn.

*Auðunn* — (Við Stein) Hann er geggjaður.

*Steinn* — Þeir eru báðir bilaðir á sönsum.

*Steinn* — (Til Ásvaldar). Þú getur þó vísað okkur veginn upp að fossinum. Við þurfum að yfirlíta hann.

*Ásv.* — (Bendir á vegvísinn). Þarna eru þær einu áttir sem ég kann.

(Auðunn og Steinn horfa vandræðalega hvor á annan).

*Auðunn* — Þú mundir ekki vilja ganga með okkur upp að fossinum?

*Steinn* — Við skulum borga þér vel fyrir ómakið.

*Ásv.* — Jú, það er svo sem meir en velkomið. En þið virðist þreyttir og göngumóðir og ef til vill svangir. Viljið þið ekki tylla ykkur niður í kofanum mínum og þiggja matarbita?

*Steinn* og *Auðunn* — Nei, nei. Þakka þér fyrir.

*Auðunn* — Við höfum engan tíma til þess.

*Steinn* — Nei, en fossinn verðum við að skoða, hæð hans og vatnsmagn, gera lauslega áætlun um afl hans.

*Auðunn* — Hversu mikla orku má vinna úr honum, væri hann beizlaður?

*Kýminn* — Ef hugmyndin er, að leggja við þann gamla og stíga á bak, þurfa herrarnir aldrei framar að spyrja til vegar.

*Steinn* — (Til Ásvaldar). Ég vona að þú skiljir að það er hæð fossins og vatnsmagn, sem —

*Ásv.* — Já. Hann er svo hár, að þegar sólin skín, getur hann seilst upp í himininn eftir heilum friðarboga, sem skaparinn beygir að fótum hans; svo breiður, að þegar maður situr á bakkanum og gerir sér grein fyrir því undra afli, sem um aldaraðir hefir steypst fram af bergbrúninni, finnur hann sárt til, hversu smávægilegt og skammvinnt er starf vesalings litla hjartans, sem flöktir í brjósti hans um fáeina áratugi. (Herramennirnir taka ofan hattana og þurka af sér svitann). Og svo er vatnsmagnið mikið, að væri ekki yfirborð þess truflað af straumþunganum, mundi það spegla allan himininn í djúpi sínu.

*Kýminn* — Og sól, tungl og ellefu stjörnur.

*Auðunn* — Við höfum eytt nógum tíma í að hlusta á þetta bölvað röfl í ykkur. (Til Ásvaldar). Ætlar þú að fylgja okkur að fossinum, eða ekki?

*Ásv.* — Sjálfsagt. (Til Kýmins). Þú bíður hérna og vísar veg þeim, sem viltir eru. (Fer út til hægri. Steinn og Auðunn eftir honum).

*Kýminn* — (Hringgengur vegvísinn). Ég orðinn leiðsögumaður. Jæja. Mér ætti að takast, að sanna máltækið, „þegar blindur leiðir blindan, falla báðir í sömu gröf".

*Dísa* — (Kemur frá hægri — velbúin, frísk og fjörleg). Við hvern ertu að tala?

*Kýminn* — Við sjálfan mig auðvitað. Sérðu mig ekki?

*Dísa* — (Hlær). Þú ert skrítinn náungi. Og til hvers ertu að hringsóla kring um staurinn þann arna?

*Kýminn* — Til þess að ná áttunum. Sérðu ekki, að þetta er vegvísir, eða ertu blind?

*Dísa* — Nei, ekki blind, en rammvilt.

*Kýminn* — Þú ættir að sitja heima, á botninum, og bíða eftir mannsefninu.

*Dísa* — Þeim þætti æfi minnar er lokið. Hann sveik mig, bölvaður — eftir alla kossana og fagurmælin. Svo ég kvaddi kóng og prest og ætla að fara mína leið.

*Kýminn* — Ef þú veizt hvert þú ætlar, ertu ekki vilt.

*Dísa* — Ég vildi helzt fara í allar áttir.

*Kýminn* — Alveg rétt af þér. Allar götur liggja til Rómu.

*Dísa* — Ég vil komast í glaum og gleðskap, þar sem engin svik er að finna og enga eftirsjá.

*Kýminn* — Nú, því ekki að leggja bara upp í allar áttir?

*Dísa* — Æ, ósköp ertu vitlaus! Ég kemst ekki nema eina vissa leið í einu. Og sé þessi staur vegvísir,

ætti hann, að benda í áttina til gleðinnar.

*Kýminn* — (Afsíðis). Nú vildi ég, að Ásvaldur væri kominn. (Bendir Dísu á vegvísinn og reynir að stæla látbragð Ásvaldar). —

*Dísa* — (Eftir að athuga vegvísinn — glöð í bragði). Já, þarna stendur það. Til glaums og gleði. Því bentir þú mér ekki á þetta strax?

*Kýminn* — Allar götur liggja til Rómu.

*Dísa* — Mig varðar ekkert um þessa Rómu. Er leiðin greið til glaums og gleði?

*Kýminn* — Ásvaldur segir, að þangað liggi breiðasti og greiðasti vegurinn.

*Dísa* — Hæ, gaman! — (Trallar og dansar út. Rödd hennar heyrist í skóginum þar til tjaldið er fallið).

*Kýminn* — Því kom hann Ásvaldur mér í þessa klípu? Alt árans herrunum að kenna.

—*Tjaldið.*

## ANNAR ÞÁTTUR

Árum síðar. Leiksvið sama, nema hvað stórskógurinn í baksýn er gisnari. Ásvaldur situr inni fyrir opnum glugganum og les í bók, þreytulegur og hæruskotinn. Letrið á vegvísinum er máð svo varla má greina stafina.

*Kýminn* — (Sagar eldivið aftarlega hægra megin. — Þurrkar af sér svitann). Heyrðu Ásvaldur, gætirðu ekki setið hérna úti og sagt bjálfunum, sem villast hingað, til vegar?

*Ásv.* — Nei, ég treysti mér ekki til þess, ég á svo bágt með að hreyfa mig.

*Kýminn* — Já, eins og ég hefi altaf sagt. Þú ert vafalaust beinbrotinn.

*Ásv.* — Ég er eitthvað illa lamaður.

*Kýminn* — Mér hefði þótt það bjánaskapur af mér, að bisa við, að draga trédrumb úr fossinum.

*Ásv.* — Ég mátti til. Tréð rak brotinn endann út í fossbrúnina. Það var eins og flís í auga.

*Kýminn* — Fossinn sér um sig, en fólkið ekki, fái það ekki leiðsögn þína.

*Ásv.* — Hér verður engum lengur vísað til vegar.

*Kýminn* — Nú fyrst þarfnast þeir hér leiðbeiningar, sem villast hingað.

*Ásv.* — Síðan akbrautin var lögð og pappírsgerðin hafin, villist hér enginn lengur. Þeir Auðunn og Steinn hafa gert staðinn heimsfrægan, og um leið ausið upp milljónum á fyrirtækinu. Og þar sem auður og frægð leggjast á eitt, villist enginn. —

*Kýminn* — Eða er sér þess ekki meðvitandi.

*Ásv.* — Sem er, ef til vill, eitt og hið sama.

*Kýminn* — (Hlustar, horfir út til vinstri). Mér heyrðist bifreið stanza úti á veginum.

*Ásv.* — Enginn villist í bifreið.

*Kýminn* — Þarna kemur þá eitt útmetið og uppáfært kærustupar.

*Ásv.* — Ekki þarfnast þau leiðbeiningar (lokar glugganum).

*Kýminn* — Hver getur sagt um það? (Dregur sig í hlé. — Jón, velbúið snyrtimenni og Dísa, máluð og skrautklædd, koma frá vinstri).

*Jón* — Hérna var það, Dísa, sem

einbúinn þóttist vísa fólki til vegar. En, auðvitað, tók ég ekki mark á því, sem hann sagði, og fór mína leið.

*Dísa* — Eins var það með mig. Ég staldraði hér við, til að ná áttunum. Einhver aulabárður stóð hér við staurinn og þóttist vísa viltum til vegar, með því að benda á hann. En ekki var það aulabárðurinn, heldur ég sjálf, sem valdi veginn til glaums og gleði. Síðan eru liðin fleiri ár, en hér var það, sem lán mitt hófst.

*Jón* — Dag skal að kvöldi lofa, Dísa mín. Ertu nú alveg viss um, að þú sért lánsöm?

*Dísa* — Já, meðan ég er viss um ást þína. (Sér Kýminn, gengur til hans og réttir fram höndina). Æ, komdu nú sæll, karlfauskur, og takk fyrir síðast.

*Kýminn* — (Réttir henni feimnislega fingurna). Sæl, frú mín.

*Dísa* — Þekkir þú mig ekki? Manstu ekki eftir stelpugapanum, sem þú þóttist eitt sinn segja hér til vegar? (Til Jóns). Þarna er aulabárðurinn.

*Jón* — Vitleysa! Þetta er hann Kýminn. Hann kendi mér að græða fé.

*Kýminn* — Æ, er þá ekki Jónsi kominn. (Athugar Jón frá hvirfli til ilja og heilsar honum með handabandi. — (Til Dísu). Nú, það hefir heldur en rætzt úr stráknum. — Ertu kannske orðinn herramaður, Jónsi?

*Jón* — (Þurlega). Hvar er hann Ásvaldur?

*Kýminn* — Ekki kendi hann þér að græða peninga.

*Dísa* — Hver er þessi Ásvaldur?

*Jón* — Hann benti mér á vegvísinn.

*Dísa* — Þess vegna fórum við sína leiðina hvort.

*Kýminn* — Og þess vegna bar fundum ykkar saman; því allar götur liggja til Rómu.

*Jón* — Skítt með Rómu. Hvar er Ásvaldur?

*Kýminn* — Heima hjá sér, hérna í kofanum.

*Jón* — Segðu honum, að koma út og tala við mig.

*Kýminn* — Hann kemst hvergi. Hann er farlama maður. Gerið svo vel og gangið í bæinn. (Færir sig nær dyrunum).

*Dísa* — Nei, takk! Inn í þetta hreysi fer ég ekki. (Lítur á armúrið). Svo höfum við engan tíma til að slóra hér lengur. Segðu karlinum að koma út.

*Kýminn* — Ég get reynt það. (Fer inn í kofann).

*Dísa* — Hvaða erindi áttu við þennan einbúabjálfa? Ekki sækir þú gróðavit til hans?

*Jón* — Hver veit?

*Dísa* — (Hlær). Hann, sem ekkert á nema þetta kofaræksni, og helzt enn á því, af því að hann var nógu vitlaus til að byggja það, þar sem skógurinn er til einskis nýtur, þó umhverfis þennan stað, á margra mílna svæði, væri skógur, sem reynist hrein og bein auðsuppspretta.

*Jón* — Og þú ert viss um, að auðurinn sé það eina, sem er eftirsóknarvert.

*Dísa* — Já, það eina einasta!

*Jón* — Mér þykir vænt um, að þú lítur svo á lífið.

*Dísa* — Eins og ég hafi farið dult með þá skoðun fram að þessu.

*Jón* — Nei, ekki það. En mér kemur sérstaklega vel, að þú staðfestir nú með orðum þínum, það sem ég hefi altaf vitað.

*Dísa* — (Hlær). Ég skal leggja eið að því, sé þér nokkur þægð í því. (Virðir Jón fyrir sér). En hvers vegna krefst þú staðfestingar?

*Jón* — Vegna þess, að auður er það eina, sem ég get veitt þér.

*Dísa* — Annars þarf ég ekki með.

*Jón* — Þú ert altaf jafn skynsöm, og nú kemur það sér vel; því hér skiljum við.

*Dísa* — Skiljum! (Hlær). Þú ert svo mikill alvörumaður, að þú ættir aldrei að slá upp á spaug.

*Jón* — Mér er líka þetta full alvara. Við stöndum hér aftur á krossgötum — eins og fyrr. Þá förum við héðan sína leiðina hvort.

*Dísa* — Einmitt til að hittast aftur.

*Jón* — Eftir að skilja hér, megum við ekki finnast aftur.

*Dísa* — Ertu genginn af vitinu? Þú lofaðir mér —

*Jón* — Ég lofaði þér, að sjá um, að þig skorti aldrei neitt. Það ætla ég mér að enda. Betur get ég ekki gert.

*Dísa* — Þú getur skilið við konuna og gifst mér. Þú ert stórríkur og getur alt — hefir öll völdin.

*Jón* — Eins og stendur, er ég auðugur, en ræð ekki neinu. Þess vegna þarf ég að finna Ásvald að máli.

*Dísa* — Þú ert áreiðanlega ruglaður, ef þú ætlar að sækja hingað eitthvað meira en auðurinn getur veitt þér.

*Jón* — Svo ég segi þér eins og er, Dísa, ræð ég engu. Auðunn hefir öll völdin.

*Dísa* — Á ég að trúa því að þú sért mannleysa?

*Jón* — Það var að þínu ráði, að ég giftist dóttur Auðuns. Á þann hátt varð ég auðugur. Allslaus gat ég ekki notið hæfileika minna, en í félagi við þá, Stein og Auðun, urðu mér allir vegir færir á sviði fjármálanna.

*Dísa* — Og nú áttu ekki annað eftir en losast við konuna, sem varla mun kæra sig um að þú eigir okkur báðar.

*Jón* — Nei, skilnað mundi hún veita mér; en losaðist ég við hana, eins og þú kallar það, mundi ég losast við fleira.

*Dísa* — Til dæmis?

*Jón* — Mannorð mitt og sjálfsvirðing, sé það til.

*Dísa* — Þetta er fyrirsláttur. Þú vilt losast við mig.

*Jón* — Það yrði mér hægðarleikur, þegar ég væri orðinn öreigi.

*Dísa* — Hvers konar vitleysa er þetta?

*Jón* — Auðunn gamli er skarpari en ég, og hann hefir ráðið ráðum fyrir mér, og er nú svo komið, að með því að stinga niður penna, gæti hann flegið mig inn að skyrtunni. Hann ann dóttur sinni og veit henni þykir vænt um mig, og mundi einskis svífast, þar sem ímynduð hamingja hennar og sæmd eiga í hlut.

*Dísa* — Þetta er bölvuð meinloka — nema þú sért heimskingi og rola.

*Jón* — (Hlustar. Bifreið heyrist koma og stanza úti á veginum).

Þey! — Nú eru þeir komnir — Steinn og Auðunn. Í guðs bænum láttu þá ekki sjá þig hér með mér.

*Dísa* — Svo þú skammast þín fyrir, að sjást með mér.

*Jón* — Nei, nei. En sæi Auðunn okkur hér tvö ein, væri hann vís til að skammta mér inntektir mínar úr hnefa, og þá yrði lítið, sem ég gæti látið af hendi rakna við þig.

*Dísa* — Eitthvað mun satt í því, annað eins ómenni og þú ert. En hvort sem Auðunn skamtar smátt eða stórt; skaltu ekki komast af með að afskifta mig.

*Jón* — Það ætla ég mér heldur aldrei að gera.

*Dísa* — (Hlær). Á ætlanir þínar reiði ég mig ekki, heldur óttann og og lydduskapinn; því ekki hefir þú minni ótta af mér en húsbónda þínum.

*Jón* — Ég geri hvað ég get fyrir þig, Dísa, en það verður lítið, finni Auðunn þig hér.

*Dísa* — Og þess vegna skiljum við í þetta sinn.

*Jón* — Fyrir fult og alt.

*Dísa* — Það verður nú undir því komið, hvernig þetta síðasta loforð þitt reynist. Svíkir þú mig í annað sinn, skaltu eiga mig á fæti. (Fer veginn til glaums og gleði. — Jón gengur að dyrunum. Í því koma þeir Steinn og Auðunn. Jón sér þá og snýr við).

*Auðunn* — Við sáum bifreiðina þína úti við veginn, og bjuggumst við að þú værir að slóra hér, eins og oftar. (Lítur um). Það er ekki að furða þó þér sé annt um þetta bölvað bæli. Eða hitt þó heldur.

(Kýminn kemur í dyrnar og sezt á þröskuldinn. Hefir brauðsneið í annari hendi og tinskál í hinni. Hlustar og étur).

*Steinn* — Það er afráðið, að hreinsa þennan óræktar blett, og leggja veginn hér í gegn, í stað þess, að gera krók á sig, eins og nú hagar til.

*Jón* — Fæ ég þá ekki ráðið því, að kofinn megi standa í friði? Þetta er það eina, sem ég hefi látið eftir tilfinningum mínum síðan ég gerðist starfs- og félagsmaður ykkar. Undir minni umsjón var pappírsgerðin reist, skógurinn ruddur, fossinn beizlaður. Alt þetta tókst eins vel eða betur en á var ætlað. Finst ykkur þá ósanngjarnt, að láta það eftir mér, að lofa kofanum og nokkrum trjám, sem lítils virði eru, að standa?

*Auðunn* — Ekki ef nokkurt vit væri í því.

*Steinn* — Það er prinsípið, sem hér kemur til greina.

*Auðunn* — Það er einmitt það. Prinsípið.

*Jón* — Hvaða prinsíp?

*Steinn* — Prinsípið, jú, er að taka öll ráð af tilfinningunum, þegar um bissnes er að ræða.

*Jón* — En ég þykist hafa lært það eitt með öðru af ykkur, að leika stundum á tilfinningar annara, til að komast að góðum samningum.

*Auðunn* — Jú, það er alt annað mál.

*Jón* — Ekki í þetta skifti.

*Steinn* — Ekki það?

*Auðunn* — Hvað hefirðu í huga?

*Jón* — Það sama og þið, að hafa eitthvað upp úr þessum bletti. Hér hefir undarlegur einbúi haldist við,

enginn veit hvað lengi, í húskofa, sem er einn í sinni röð. Eins og allir sjá, er ekkert sérstakt hér, sem talist getur aðlaðandi, þó hafa fleiri slæðst hingað en á nokkurn annan stað á öllu því landflæmi, sem félag okkar hefir náð umráðum yfir. Og fyrst nú afráðið er, að reisa túrista bústaði hér skamt frá, gæti þetta komið til með að verða sögustaður.

*Steinn* — Og auglýsa hann vel —

*Auðunn* — Þetta er ekki svo galið hjá Jóni.

*Steinn* — Túristar ku vera ákaflega gefnir fyrir sögustaði.

*Auðunn* — Vitaskuld mundi nokkur kostnaður ganga í auglýsingar. Svo væri sjálfsagt að ræsta hér eitthvað til, en þetta gæti alt borgað sig með tímanum.

*Jón* — Eigi þetta að teljast sögustaður, verður bezt, að breyta hér engu. Tíminn gerir nóg í þeim efnum. Kostbærum auglýsingum er ég einnig mótfallinn. Eins og ég segi, hafa margir komið hingað, meira að segja, vilst hingað, og þeim má treysta til að vekja orðasveim, sem líklegri væri til að vekja forvitni ferðamanna en auglýsingaskrum.

*Steinn* — Með öðrum orðum, hér getur verið um gróðaveg að ræða, sem ekki kostar okkur blóðugt sent.

*Auðunn* — Að minsta kosti, mætti reyna þetta, og okkur að kostnaðarlausu.

*Steinn* — Margar tillögur Jóns hafa reynst vel grundaðar.

*Jón* — Þakka þér fyrir góð orð, Steinn.

*Auðunn* — Við sláum því föstu, að þetta sé sögustaður. (Jón, Auðunn og Steinn fara út til vinstri).

*Kýminn* — (Stendur upp). Heyrðir þú til þeirra, Ásvaldur?

*Ásv.* — Ekki vel. Opnaðu gluggann fyrir mig.

*Kýminn* — (Opnar gluggann). Jónsi stóð sig vel þó hann sé orðinn hálfgerður herramaður.

*Ásv.* — Þessi Jón er góður piltur.

*Kýminn* — Ekki er það nú víst. Mér skildist gróðavon hans ráða því, að við yrðum ekki flæmdir héðan, en ekki góðmennskan.

*Ásv.* — Við höfum enga ástæðu til að ætla Jóni annað en það sem gott er. Allir menn eru góðir.

*Kýminn* — Já, það má nú segja. Til dæmis þeir Steinn og Auðunn og Jón með þeim. Þeir lögðu við fossinn og gerðu úr honum húðarklár, og eru á góðum vegi, að uppræta allan skóginn á stóru landflæmi.

*Ásv.* — Til þess hafa þeir löglegt leyfi.

*Kýminn* — En ég hélt að guð hefði skapað skóginn og fossinn, og varla trúi ég því, að herramennirnir hafi gert það ómak á sig, að finna hann að máli. Og í hina áttina munu þeir leita hvort sem þeir nota fossinn til aksturs eða reiðar. Nei, góðir eru þeir ekki, herrarnir.

*Ásv.* — En þá standa þeir til bóta, og batnandi manni er bezt að lifa.

*Kýminn* — Vitaskuld stendur alt sem ilt er til bóta.

*Ásv.* — Á því lifir vonin og án hennar væri ekki líft í þessum heim.

*Kýminn* — Alt er þetta skýrt og skiljanlegt. Vonin er góð og þrífst á hinu illa. Ergó — (Hlustar eftir

bifreið, sem heyrist stanza). Einn djöflavagninn enn. Ég held þetta túrista-aðstreymi, sem herrarnir eru að setja í gang, sé þegar byrjað... Og nú er það kærustupar. (Fer inn í kofann og lokar glugganum. Sveinn og Björg koma frá vinstri. Litast um).

*Sveinn* — Hérna var það, Björg.

*Björg* — Já, ég man vel, þegar ég fór héðan eftir leiðbeining einbúans. —

*Sveinn* — Og þessa vegvísis. En ertu viss um, að þú hefðir ekki farið þína leið hvort sem var?

*Björg* — Getur vel verið. Ef til vill fær enginn vísað öðrum til vegar, nema rétt í svipinn.

*Sveinn* — Eigum við ekki að drepa á dyr? (Bankar á kofahurðina).

*Kýminn* — (opnar). Hvað er nú?

*Björg* — Komdu sæll.

*Kýminn* — (Kemur út. Þurkar höndina á buxnaskálminni. Þau takast í höndur). Æ, komdu nú blessuð og sæl. (Til Sveins). Og þú sömuleiðis. (Þeir heilsast með handabandi). Hvernig var það, funduð þið beljurnar?

*Björg* — (Hlær). Já, og ýmislegt fleira.

*Sveinn* — Hvar er einbúinn?

*Kýminn* — Hér er enginn einbúi. Nú á ég hér heima og er tvíbúi.

*Björg* — Hver er þá hinn tvíbúinn?

*Kýminn* — Nú hver annar en hann Ásvaldur.

*Sveinn* — Ég kom til að finna hann. Er hann heima?

*Kýminn* — Því er nú ver. Hann er altaf heima.

*Sveinn* — Má ég hafa tal af honum?

*Kýminn* — Það tel ég víst. En hann kemst hvergi. Varð fyrir slysi og liggur fyrir. En ef þú vildir gera svo vel og ganga í bæinn. —

*Sveinn* — Þakka þér fyrir.

*Björg* — Já, við skulum sjá, hvernig Ásvaldi líður.

*Kýminn* — (Opnar fyrir þeim). Gerið svo vel. (Þau fara inn. Kýminn leggur aftur hurðina. Gengur að staurnum og athugar hann spekingslega. — Þögn þar til kofahurðin opnast).

*Björg* — (Inni). Í hamingju bænum farðu nú varlega, Sveinn. (Kemur út með kodda og rúmteppi og hagræðir því við vegvísinn). Farðu nú inn, Kýminn, og hjálpaðu honum Sveini.

*Kýminn* — Er hann nú líka orðinn farlama?

*Björg* — Láttu nú einu sinni eins og þú hafir ofurlitla vitglóru. Þið verðið að hjálpast að því, að koma honum Ásvaldi út í sólskinið.

*Kýminn* — Þetta er það sem ég hef altaf sagt. En að ég geri mér upp vit — (Fer inn). Varlega, Sveinki minn. Þetta er svoddan skar.

*Ásv.* — (Inni). Hann Sveinn er mjúkhentur eins og móðir við barn.

*Björg* — (Við dyrnar). Svona komið þið nú með hann. (Þau hjálpast að, að bera Ásvald út og leggja hann á teppið).

*Ásv.* — Æ, hvað það er gott, að koma út undir bert loft — undir heiðan himinn.

*Kýminn* — (Afsíðis). Sumir álíta

Glenboro skrifaði 31. okt. s.l., í tilefni af fráfalli hans: „Hann kom fullorðinn frá Íslandi, og hann barðist drengilega til mennta og frama. Hann hefir unnið stórt dagsverk; hann var fjölhæfur drengskaparmaður og þjóðrækinn“. Þjóðræknisfélagið saknar séra Egils úr hópi starfsmanna sinna og vottar ekkju hans og sonum innilega samúð.

Annar fyrrverandi meðlimur stjórnarnefndar félagsins, hr. Ásmundur Pétur Jóhannsson, lézt einnig síðla á árinu. Hann var, sem kunnugt er, einn af stofnendum félagsins, embættismaður þess um fjölda ára og einn hinn ötulasti styrktarmaður þess á allan hátt. Forseti hefir skrifað fáein minningarorð um þennan ágæta starfsmann í Tímarit félagsins, sem nú er nýprentað. Skal því ekki fjölyrt um hann hér umfram það að segja, að Ásmundar mun minnst eins lengi og þetta félag vort er við líði. Hann var byggingameistari í meira en einu tilliti. Hann lagði drjúgan skerf í byggingu þessa félags, og var um allt hinn mesti sæmdarmaður. Þjóðræknisfélagið þakkar störf hans og mun jafnan halda minningu hans í heiðri.

Þá var að Þjóðræknisfélaginu harmur kveðinn við hið óvænta fráfall Herra Sigurgeirs Sigurðssonar, biskups yfir Íslandi og forseta Þjóðræknisfélags Íslendinga í Reykjavík; var hann einnig heiðursmeðlimur félags vors. Þrátt fyrir fjarlægðina var hann oss jafnan nálægur í anda og hann hafði vakandi áhuga á störfum vorum. Heimsókn hans til vor í tilefni af 25 ára afmæli þessa félags verður oss flestum, sem kynntumst honum, ógleymanleg. Fjölmargir Vestur-Íslendingar, sem heimsóttu ættjörðina í biskupstíð hans, nutu margvíslegrar fyrirgreiðslu og gestrisni á hinu glæsilega heimili hans og frú Guðrúnar að Gimli í Reykjavík. Sem forseti Þjóðræknisfélags Íslendinga, og sem heiðursmeðlimur vor, stóð hann í nánu sambandi við oss hér vestra og sendi oss kveðjur og uppörfunarorð við ýmis tækifæri. Forseti sendi fjölskyldu hans samúðarskeyti í tilefni af fráfalli hans; þingið mun þakka honum störf hans og biður ástvinum hans blessunar.

Aðrir meðlimir félagsins, sem látist hafa á árinu, og forseta er kunnugt um, eru þessir: Jóhannes Sveinsson, Inglewood, Cal.; Sigurður Sigurðsson, Calgary; Finnbogi Hjálmarsson, Vancouver; Magnús Brandson, Winnipeg; Trausti Ísfeld, Selkirk; Ágúst Magnússon, Lundar; Kristján Kristjánsson, Eyford, N.D.; Mrs. Kristján G. Kristjánsson, Eyford, N.D.; Jóhannes Pétursson, Winnipeg; Þorlákur Nelson, Lundar; Jón Sigurðsson, Gimli; Eggert Levy, Ósum; Guðmundur Þorsteinsson, Winnipeg; Þorsteinn Sveinsson, Winnipeg; Valdimar Jóhannesson, Árborg; Guðjón Friðriksson, Selkirk; Mrs. G. S. Paulson og Mrs. B. Mýrdal, Argylebyggð; Jóhann Kárason, Guðríður Eiríksson, Hannes Kristjánsson og María Frederick, Seattle.

Ungfrú Margrét Pétursson, vara-féhirðir félagsins, sem tók sæti í stjórnarnefndinni á síðasta þingi, veiktist s.l. sumar og hefir verið frá störfum um all-langt skeið. Hún var ötul, ósérhlífin og mjög samvizkusöm í nefndarstörfum sínum sem öðrum verkum. Þingið óskar henni heilsubótar og langra lífdaga.

Tveir meðlimir stjórnarnefndar voru fjarverandi um skeið, þeir prófessor Finnbogi Guðmundsson, vara-skrifari, og vara-fjármálaritari, Ólafur Hallsson, kaupmaður. Fjarvera þeirra reyndist þó nefndinni og félaginu ávinningur, fremur en áfall. Þeir voru, sem kunnugt er, í Íslandsferð og ráku þeir þar ýmisleg erindi fyrir félagið, svo sem síðar mun vikið að.

Vér erum ekki saman komin hér til þess eins að telja harma vora, eða til þess að núa höndum saman í örvæntingu og uppgjöf. Vonbrigði steðja að félagssamtökum sem einstökum mönnum, vinir berast burt á straumi tímans, en lífið og starfið kalla sem fyrr. Lítil eru þá geð guma ef nú skal heykjast, og lítil virðing er minningu horfinna starfsmanna sýnd með uppgjafarnöldri og bölsýni.

Hvað hefir þá gerzt?

Í stuttu máli hefir það gerzt, að félag þetta er enn til eftir 35 ára starf, og að það heldur enn í horfinu. Ef til vill er það furðuverkið mesta, eða svo mun þeim sennilega þykja, sem í upphafi spáðu þessu félagi bráðum dauða. Félagið hefir haldið í horfinu, sagði ég. En hvert er þá viðhorfið? Það er tvíþætt og þeir þættir svo samantvinnaðir, að oft er erfitt að gera greinarmun á þeim. Annars vegar horfum vér til austurs, — til Íslands; hins vegar horfum vér á umhverfi sjálfra vor.

**Sambandið við Ísland** er þessu félagi lífsnauðsyn. Ef það rofnar, er oss hætta búin. Þessu sambandi er haldið við með ýmsu móti, með gagnkvæmum heimsóknum, með bókum og blöðum, og með útvarpi og myndum. Allt þetta hefir komið mjög til greina á umliðnu ári.

Öllum er enn í fersku minni hópferðin mikla, sem prófessor Finnbogi Guðmundsson efndi til og veitti forstöðu á s.l. sumri. Með þeirri ferð má vonandi segja að hafi orðið þáttaskipti í samfélagi heimaþjóðarinnar og Vestur-Íslendinga. Aldrei hefir jafn stór hópur manna farið til Íslands á jafn skömmum tíma. Viðtökur voru hinar ágætustu, og ferðin öll frábærlega hressandi og fróðleg, að sögn þeirra, sem tóku þátt í henni, en það voru í allt 38 manns, 28 frá Canada og 10 víðsvegar að úr Bandaríkjunum. Mjög er það æskilegt, að framhald geti orðið á slíkum hópferðum,

og færi bezt á, að þær yrðu gagnkvæmar, þannig, að sama flugvélin tæki annan hópinn vestur og hinn austur. Hvað sem úr því verður, á prófessor Finnbogi þakkir skilið fyrir áræði sitt og dugnað í sambandi við þetta fyrirtæki.

Aðrir sem til Íslands fóru á árinu, og mér er kunnugt um, eru þeir Valdimar Björnsson,, fjármálaráðherra Minnesotaríkis, Páll R. Johnson, leikhússtjóri í Winnipeg, Jóhanna Nielsen og Elene H. Smith, skrifstofustúlkur í Winnipeg, og frú Rósa Benediktsson, Markerville, Alberta, var hún meðlimur í flugliði próf. Finnboga og fór í boði nokkurra vina hér vestra og flugfélagsins „Loftleiðir", en á Íslandi var hún gestur ríkisstjórnarinnar, í tilefni af 100 ára afmæli föður síns, skáldsins Stephans G. Stephanssonar. Einnig fóru til Íslands á árinu séra Eric H. Sigmar og Svava kona hans frá Seattle, Wash., og dvelja þau nú sem stendur þar í landi. Ennfremur fór Grettir verkfræðingur Eggertson hér í borginni snögga ferð til Íslands á árinu.

Á hverju ári fjölgar þeim, sem koma vestur um haf ýmissa erinda. Margir þeirra koma norður hingað, og vinna félagi voru gagn, beint eða óbeint. Ég minnist nú heimsókna þessara: Helga Elíassonar fræðslumálastjóra Íslands, Jóns Emils Guðjónssonar, framkvæmdastjóra Bókaútgáfu Menningarsjóðs og Þjóðvinafélagsins, Njáls Þóroddssonar kennara, sem sýndi hreyfimyndir hér víðsvegar um sveitir, Ólafs Ólafssonar kristniboða, Bjarna Snæbjörnssonar læknis frá Hafnarfirði og Helgu Jónsdóttur konu hans, Jónasar læknis, sonar þeirra, og Hönnu Tryggvadóttur konu hans, og Kristjönu Helgadóttur læknis frá Hafnarfirði, sem nú nýlega er hingað komin í heimsókn til vina og kunningja. Á árinu komu hingað til búsetu tvenn hjón, Jón Jóhannson og frú, og Þorsteinn Guðmundsson og frú, og sömuleiðis Reynir Þórðarson, öll frá Reykjavík. Síðastan, en þó fremstan þessara gesta, vil ég þó fyrir margra hluta sakir nefna séra Einar Sturlaugsson, prófast frá Patreksfirði. Hann kom hingað vestur í boði háskóla Manitobafylkis, Íslendingadagsnefndarinnar og Þjóðræknisfélagsins. En hann hafði ekki á sér gestasnið meira en svo að hann fór að segja má dagfari og náttfari um helztu byggðir vorar í Manitoba, Saskatchewan, British Columbia, Washington og Norður-Dakota. Á þessum ferðum sýndi hann hreyfimyndir frá Íslandi 19 sinnum, flutti 15 erindi um Ísland, og 15 guðsþjónustur. Er mér ekki kunnugt um nokkurn gest frá Íslandi, sem á jafn skömmum tíma hefir lagt á sig aðra eins vinnu og séra Einar gerði hér. Stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins stóð fyrir þessum ferðum prófastsins og skipulagði þær. Að lokum vottaði nefndin honum þakkir og leysti hann út með lítilfjörlegum minningargjöfum. Tel ég sjálfsagt, að þetta þing vilji nú formlega votta honum þakkir félagsins og Vestur-Íslendinga.

Annar góður gestur, sem heimsótti byggðir vorar á árinu, var frú Guðmunda Elíasdóttir óperusöngkona frá New York. Kom hún í boði stjórnarnefndar félags vors og hélt fyrir atbeina þess söngsamkomur á ýmsum stöðum bæði hér í Winnipeg og nærlendis. Var aðsóknin að samkomum hennar mjög mikil yfirleitt, og fólk mjög hrifið af söng hennar og allri framkomu. Er óhætt að segja, að fólki voru var mikil ánægja og þjóðernislegur styrkur að heimsókn hennar.

Þá tel ég rétt að geta þess, að hingað eru nýkomnir til dvalar tveir íslenzkir prestar, þeir séra Robert Jack, til prestakallsins í Norður Nýja-Íslandi, að Árborg, og séra Bragi Friðriksson, til Lundar-Langruth prestakallsins, með búsetu að Lundar. Enda þótt þessir menn séu ekki komnir hingað á vegum Þjóðræknisfélagsins, tel ég tvímælalaust, að þeir muni reynast ágætir starfsmenn, einnig á því sviði. Séra Robert Jack hefir nú nýlega komið fram sem aðalræðumaður á fjölsóttri og virðulegri árshátíð Icelandic Canadian Club, hér í borginni, og séra Bragi gaf til kynna í hinni snjöllu ræðu, sem hann flutti í Fyrstu lútersku kirkju í gærkveldi, um „Þjóðrækt og guðrækni", hvar hann stendur í þeim málum. Það, sem ég hefi nú sagt um þá séra Robert Jack og séra Braga, gildir engu síður um séra B. Theódór Sigurðsson, ræðumann Frónsmótsins, hér á þinginu. Gert er ráð fyrir, að hann taki nú bráðlega við embætti séra Egils H. Fáfnis, að Mountain, N.D. Veit ég, að hann muni fara að dæmi fyrirrennara síns í því embætti, að því er þjóðræknismálin snertir, og þá ekki síður í því efni, feta í fótspor föður síns, hins mikilhæfa höfuðklerks og föðurlandsvinar, séra Jónasar A. Sigurðssonar, sem um eitt skeið var forseti þessa félags. Er mér ljúft og skylt að bjóða þessa menn velkomna til starfs á vettvangi Þjóðræknisfélagsins, og hyggjum vér gott til samstarfsins við þá á þessu sviði.

**Fræðslumál**

Ég hefi nú talað nokkuð um sambandið við Ísland, en þær umræður hafa einnig gripið inn í fræðslumálin, einkum að því er snertir ferðalög og erindi séra Einars. Umræður um fræðslumál vor hljóta einnig að grípa inn í umræður um sambandið við Ísland. Það er ekki og getur aldrei verið vatnsþétt skilrúm á milli þessara mála. En er um fræðslu- og útbreiðslumál vor ræðir, á það við, sem ég gat um í

upphafi, að þau störf hafa fallið á herðar einstökum mönnum, sem vegna aðstöðu sinnar og áhuga hafa beitt sér fyrir þeim.

Sá meðlimur stjórnarnefndarinnar, sem ötulast og markvissast hefir unnið að útbreiðslu og fræðslumálum félags vors á árinu, er prófessor Finnbogi Guðmundsson. Auðvitað er hann fyrst og fremst starfsmaður háskólans, en starf hans þar er að ýmsu leyti svo nátengt starfsmálum félags vors, að naumast má á milli sjá. Það sem hann vinnur háskólanum í nafni íslenzkra menningarmála, vinnur hann einnig málstað þessa félags. Sem starfsmaður í stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins hefir hann komið víða við á þessu umliðna ári. Ég hefi áður minnst á Íslandsferð hans í sumar. Þar fræddi hann heimaþjóðina um oss í útvarpserindum og á annan hátt. Síðan hann kom vestur aftur hefir hann sent fréttabréf til ríkisútvarpsins í Reykjavík, og hafa þau verið lesin í áheyrn alþjóðar. Hann var formaður í nefnd þeirri, er Þjóðræknisfélagið skipaði til að undirbúa hátíðahöld í minningu um 100 ára afmælis Stephans G. Stephanssonar, og varð það t. d. fyrir atbeina hennar, að Stephani var að mestu tileinkuð Íslendingadagshátíðin að Gimli s.l. sumar. Er þess annars að vænta, að nefndin skili sérstakri skýrslu síðar á þinginu. Þess má og gjarnan geta, þó að það væri ekki á vegum Þjóðræknisfélagsins, að próf. Finnbogi sótti á s.l. hausti muni þá úr dánarbúi Stephans G. Stephanssonar, er börn hans gáfu Manitobaháskóla, og kom hann þeim fyrir í íslenzku lestrarstofunni í hinni nýju bókasafnsbyggingu. Voru munirnir sýndir, er bókasafnið var formlega opnað og tekið til afnota 26. sept. s.l. Er mjög ánægjulegt að sjá, hve góðan og virðulegan stað háskólinn hefir valið íslenzku bókunum í hinni nýju og glæsilegu byggingu, og gott er til þess að vita, að þar vinnur nú íslenzkur bókavörður, frú Helga Pálsdóttir frá Reykjavík, er hér dvelst ásamt manni sínum, Birni Sigurbjörnssyni, en hann stundar landbúnaðarnám við háskólann.

Dr. Richard Beck, fyrrverandi forseti félagsins, hefir ekki, fremur en á fyrri árum, legið á liði sínu hvað snertir áhugamál þessa félags. Hafa þó á árinu hlaðist á hann nýjar annir og ábyrgð, er hann var skipaður yfirkennari og eftirlitsmaður allrar tungumálakennslu í háskóla sínum, ríkisháskólanum í Grand Forks. Hann hefir unnið fjölþætt kynningarstarf á árinu, sem félag vort metur og þakkar. Hann átti hlut að komu frú Guðmundu Elíasdóttur, söngkonu, og hafði samvinnu um ferðalög hennar í Norður-Dakota, bæði við samkomunefnd félagsins og deildina **Báruna** að Mountain, og einnig stjórnaði hann samkomu söngkonunnar þar. Hann flutti kveðju félagsins á ársfundi „The Society for the Advancement of Scandinavian Study" (Félagsins til eflingar norrænum fræðum) í Lincoln, Nebraska, s.l. vor, og hélt á fundinum erindi um Stephan G. Stephansson; samtímis flutti hann á ríkisháskólanum í Nebraska fyrirlestur um Ísland, og ræðu um norrænar hugsjónir í hátíðaveizlunni í sambandi við ársfundinn. Þá var hann einn af aðalræðumönnum á 75 ára afmælishátíð íslenzku byggðanna í Norður-Dakota, og flutti einnig ræður við hátíðarguðsþjónustur í tveimur kirkjum byggðarlagsins. Ennfremur má geta þess, að tveim erindum um Íslendi í Norður-Dakota, er hann hafði talað á segulband, var útvarpað á Íslandi. Hann flutti og erindi um Ísland fyrir allfjölmennum hóp Íslendinga í Utah á samkomu, er þeim hjónum var haldin, er þau voru á ferð í Spanish Fork síðastliðið sumar. Aðalræðumaður var hann á samkomu þeirri til heiðurs frú Jakobínu Johnson, er stúdentafélagið íslenzka, **The Leifur Eiríksson Club**, efndi til s.l. haust, og einnig einn af ræðumönnum á 75 ára afmælishátíð Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg. Útvarpsræður flutti hann frá Grand Forks, bæði á aldarafmæli Stephans G. Stephanssonar, og um Leif Eiríksson og Vínlandsfund hans. Ýmsar aðrar ræður hans fjölluðu einnig að öðrum þræði um íslenzk og norræn efni.

Á árinu kom einnig út eftir hann fjöldi af ritgerðum og ritdómum um íslenzk efni í blöðum og tímaritum beggja megin hafsins, og í amerískum og norskum fræðiritum; meðal annars ekki færri en fjórar ritgerðir um Stephan G. Stephansson í tilefni af aldarafmæli hans. Dr. Beck birti einnig í hinu ágæta ársfjórðungsriti, **The Scandinavian American Review** í New York, allítarlega grein um Íslendinga í Norður-Dakota, að fátt eitt sé talið af ritstörfum hans á þessu tímabili.

Séra Eiríkur S. Brynjólfsson hefir með starfi sínu í Vanrouver, B.C., reynzt félagi voru þarfur og góður starfsmaður. Hann hefir flutt allmörg erindi og ávörp um íslenzk efni, bæði á ensku og íslenzku, og sýnt íslenzkar kvikmyndir. Í október í haust tók hann að kenna íslenzku í kirkju sinni eftir messu. Kennslan stendur yfir eina klukkustund á hverjum sunnudegi, og hefir þátttaka og aðsókn verið allgóð. Á aðalfundi sínum í haust samþykkti deildin **Ströndin** í Vancouver, að gerast fullgildur meðlimur í Þjóðræknisfélaginu. Er félaginu það gleðiefni að bjóða **Ströndina** velkomna, og sömuleiðis fulltrúa hennar, séra Eirík, velkominn á þetta ársþing sitt.

Þá hefir forseti félagsins ekki verið með öllu aðgerðalaus á árinu. Hefir hann

komið fram á ýmsum stöðum í nafni félagsins og flutt kveðjur þess á samkomum og við mannfagnaði ýmis konar. Hið sama hefir ritari félagsins, frú Ingibjörg Jónsson, gert, auk þess sem hún hefir staðið í miklum bréfaskriftum alt árið fyrir nefndina og félagið. Skrifari hafði og að miklu leyti veg og vanda af því að undirbúa komu frú Guðmundu Elíasdóttur, og lagði á sig mikla fyrirhöfn í því sambandi. Meðnefndarmenn hennar, sem störfuðu að þeim undirbúningi, voru þeir próf. Finnbogi Guðmundsson og Ragnar Stefánsson.

**Ýms mál**

Síðari hluta vetrar í fyrra bárust félaginu spólur með útvarpsefni frá Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Reykjavík. Voru hér faldar ræður merkra manna, upplestur og söngur. Stjórnarnefndin ákvað að lofa fólki almennt að njóta þessarar skemmtiskrár, og fékk henni útvarpað. Útvarp þetta, sem stóð yfir í eina klukkustund, fór fram 18. júní s.l. og tókst ágætlega. Þessar spólur hafa verið notaðar á samkomum á nokkrum stöðum, og hafa veitt fólki mikla fræðslu og ánægju.

Á þingi í fyrra var því hreyft, hvort ekki mundi vera hægt að komast að samningum við ríkisstjórn Íslands um tollfrjálsar bögglasendingar Vestur-Íslendinga austur um haf. Nefndin fól þeim prófessor Finnboga Guðmundssyni og Ólafi Hallssyni að færa þetta mál í tal við hlutaðeigandi yfirvöld á Íslandi, og munu þeir nú gera þinginu grein fyrir árangrinum af þeirri málaleitan.

Þetta félag hefir lengi haft skógræktarmál Íslands í huga, og hefir nú lagt fram nokkurt fé til þeirra mála. Samkvæmt bréfi frá Hákoni Bjarnasyni til félagsins, dagsettu 17. júní s.l., hefir nú verið gróðursettur trjáreitur innan hins svonefnda Þjóðgarðs á Þingvöllum, og ber reiturinn nafnið **Minningarlundur Vestur-Íslendinga.**

Á árinu hafa nokkrar peningagjafir frá einstökum mönnum borizt til Íslands. Þannig hafa þau Árni Pálsson og Ragnheiður kona hans að Lundar, sent Skálholtsstað $1500.00 að gjöf, og Mrs. Guðný Thomasson, Beaver, P.O., sendi $300.00 til endurreisnar hinu forna biskupssetri, til minningar um mann sinn, Einar, sem nú er látinn. Þá gaf Þjóðræknisfélagið Barnaspítalasjóði Hringsins 10,000.00 kr. til minningar um Herra Svein Björnsson, fyrsta lýðveldisforseta Íslands. Dr. Richard Beck hefir staðið fyrir merkjasölu í tilefni af 100 ára afmæli Stephans G. Stephanssonar, með góðum árangri.

Ágóðinn af leiksýningunni „Happið", sem leikfélag Gimlibæjar, undir forustu frú Kristínar Thorsteinsson, sýndi hér í bænum í haust, var, að viðbættum smáupphæðum frá einstökum mönnum, sendur til héraðsspítalans á Blönduósi. Nam þetta alls $160.00. Hefir Dr. Kolka kvittað fyrir þessa upphæð með þakklæti.

Eitt meiriháttar samsæti hélt félagið á árinu, fór það fram 30. apríl s.l. í tilefni af heiðri þeim, er dr. Thorlakson varð aðnjótandi, er háskóli þessa fylkis veitti honum heiðursgráðuna **Doctor of Laws** (LL.D.). Stýrði forseti samsæti þessu. Einnig voru þau séra Einar Sturlaugsson og frú Guðmunda Elíasdóttir kvödd með kaffidrykkju, séra Einar að heimili Grettis ræðismanns Jóhannssonar, og frú Guðmunda á heimili Guðmanns Levy.

Eitt af þeim málum, sem rædd hafa verið á þingum og nefndarfundum og til framkvæmda kom á árinu, var útvegun fundarherbergis og skrifstofu fyrir stjórnarnefndina. Losnaði lítið kjallaraherbergi í byggingu félagsins á Home Street og var það, að afstaðinni mikilli viðgerð, tekið til afnota fyrir nefndina. Stóðu þeir Guðmann Levy, Grettir Jóhannsson og Ragnar Stefánsson fyrir þessum aðgerðum fyrir nefndarinnar hönd. Fyrsti fundur nefndarinnar var haldinn í þessari nýju skrifstofu 4. ágúst s.l. Enda þótt húspláss þetta sé næsta lítið var þó, auk nauðsynlegustu húsgagna, svo sem borði og stólum, komið þar fyrir skápum til geymslu fyrir ýmsa muni félagsins, bækur og skjöl. Hefir skjalavörður, Ragnar Stefánsson, varið miklum tíma til að hreinsa og fága þessa muni og raða þeim niður á mjög smekklegan hátt.

Á þingi í fyrra var ákveðið að breyta nokkrum liðum í aukalögum félagsins, og að yfirfara þau að öðru leyti. Var milliþinganefnd, skipuð þeim Walter J. Líndal dómara, dr. Tryggva J. Oleson og séra Agli H. Fáfnis, fengið málið til meðferðar. Gefur Líndal dómari væntanlega skýrslu um störf nefndarinnar á þessu þingi.

Íslenzkuskóli félagsins hefir því miður ekki verið starfræktur enn sem komið er í vetur. Til þess liggja þær ástæður að ekki hefir tekizt að fá nauðsynlegar lestrar- og kennslubækur fyrir skólann. Próf Finnboga Guðmundssyni var falið að útvega þessi kennslutæki í Íslandsferð sinni s.l. sumar, og lagði hann fram pöntun á þeim bókum, sem hann taldi nauðsynlegar. En þessar bækur eru enn ókomnar. Blindur er bóklaus maður, segir máltækið, og bóklaus skóli er ekki betur staddur. Öll viðleitni til kennslu án kennslutækja verður kák eitt, og oft verri en ekki. Vonandi greiðist bráðlega úr þessum vanda, svo að þessi vinsæla og bráðnauðsynlega stofnun geti aftur tekið til starfa.

Til nýmæla má það telja að bréfaskipti eru nú að komast á milli vestur-íslenzkra barna og barna á Íslandi. Nokkru fyrir

jól barst mér allstór bréfabúnki frá Hannesi Magnússyni skólastjóra barnaskólans á Akureyri. Börn á ýmsum aldri í skóla þessum höfðu skrifað bréfin, og var ætlast til að þeim yrði útbýtt til jafnaldra þeirra hér. Kunnugt er mér um að 25 svarbréf hafa verið send héðan til barnanna á Akureyri. Annar bréfabunki barst um síðustu jól frá nemendum gagnfræðaskólans á Akranesi til jafnaldra þeirra á Gimli. Ef til vill verður þetta upphaf á viðkynningu og kunningsskap æskunnar, þrátt fyrir hindranir tungumáls og fjarlægðar. Að svo megi verða munu margir óska.

Á þingi í fyrra, og reyndar á mörgum fyrri þingum, hefir verið um það rætt, að nauðsynlegt væri að Íslendingar hér í borginni kæmi sér upp samkomuhúsi í samræmi við þarfir sínar. Hafa milliþinganefndir setið í málinu ár eftir ár, en engu fengið áorkað. Tók ég að mér sem forseti Þjóðræknisfélagsins að kveða til fundar ýmsa helztu forystumenn félaga hér í bænum til að ræða um þetta mál. En eftir einkasamtöl við suma þessara manna komst ég að sömu niðurstöðu og milliþinganefndirnar: það er ekkert hægt að gera, þegar viljann vantar, eða getuna, eða hvorutveggja. Verður nú tækifæri að fitja upp á þessu á ný, ef menn óska þess.

Þjóðræknisfélagið hefir ekki haft nein útgáfufyrirtæki með höndum á árinu, nema Tímarit sitt, sem er í góðum höndum ritstjórans, Gísla Jónssonar. Á því hefir engin breyting orðið, önnur en sú, að það er nú selt fyrir $2.00; í þeirri upphæð, sem að hálfu gengur til deilda, felst meðlimagjald félagsmanna, samkvæmt ákvörðun þingsins frá 1952. En eins og menn mun reka minni til, beitti félagið sér á sínum tíma fyrir útgáfu á Sögu Vestur-Íslendinga. Verki þessu á nú að heita lokið, með útkomu 5. bindis, sem nýlega er komið í bókabúð Davíðs Björnssonar hér. Þrjú fyrstu bindi þessa verks ritaði skáldið Þorsteinn Þ. Þorsteinsson, og voru þau gefin út í Winnipeg; tvö hin síðari annaðist dr. Tryggvi J. Oleson prófessor, og eru þau prentuð í Reykjavík. Félag vort gafst upp við útgáfufyrirtæki þetta vegna fjárþurðar um það bil að ritun annars bindis var lokið. Sérstök **Sögunefnd,** skipuð fjórtán mönnum, tók þá verkið að sér, og var G. F. Jónasson, forstjóri, formaður hennar. Þjóðræknisfélagið og Sögunefndin gerðu með sér skriflegan samning, og segir þar í fjórðu grein: „Að nefndin (Sögunefndin) leggi fram allt það fé, sem nauðsynlegt sé til útgáfunnar rentulaust. Ef fyrirtækið gefi ekki nægilegt í aðra hönd til þess að mæta kostnaði, þegar verkinu sé lokið, þá leggi nefndin það einnig fram úr eigin vasa sem á vanti; en verði tekjuafgangur að verkinu loknu, renni hann í sjóð Þjóðræknisfélagsins“. Gegn þessu var nefndinni afhent fullritað handrit annars bindis, það sem þá var óselt af fyrsta bindi, og afsal á öllum kröfum til þess fjár, sem félagið hafði fram að þeim tíma lagt til þessarar söguritunar.

Með bréfi til forseta Þjóðræknisfélagsins, dags. 13. janúar 1954, gerir formaður Sögunefndar grein fyrir störfum nefndarinnar, og fylgir þeirri greinargerð ávísun að upphæð $745.12, sem er tekjuafgangur, samkvæmt fyrrgreindum samningi. Hefir ávísun þessi verið afhent féhirði vorum. Auk þessarar greiðslu hefir Sögunefndin afhent Þjóðræknisfélaginu 255 bundin eintök af þriðja bindi bókarinnar „Saga Íslendinga í Vesturheimi“, 138 óbundin eintök af sama bindi, og 9 bundin eintök af öðru bindi sömu bókar, eða alls 397 bækur. Er þessum bókum komið fyrir á skrifstofu stjórnarnefndarinnar í byggingu félagsins á Home Street. Ber nú þinginu að ráðstafa þessari bókaeign sinni, og um leið þakka Sögunefndinni dugnað hennar og framkvæmdir allar í þessu máli. Einnig á útgáfa Menningarsjóðs og Þjóðvinafélagsins og forstjóri þess, hr. Jón Emil Guðjónsson, þakkir skilið fyrir að gefa út tvö síðari bindin, og fyrir að annast sölu þessa ritverks á Íslandi.

Enda þótt það komi Þjóðræknisfélaginu ekki beint við, tel ég rétt að vekja athygli á nýútkominni bók eftir frú Thorstínu Jackson Walters, sem fjallar um íslenzku byggðina í Dakota. Er hér um fróðlega og vel ritaða bók að ræða, sem á skilið að hún sé keypt og lesin. Þá hefir Wilhelm Kristjánsson nýlokið við að rita Sögu Íslendinga í Manitoba, á ensku. Mun það verk unnið á vegum Manitoba Historical Society. Er hér um allstóra og mjög fróðlega bók að ræða, sem að vísu er enn óprentuð, en verður á sínum tíma góður fengur þeim, er unna sögulegum fræðum.

Þá vil ég geta þess, sem síðast er fram komið á meðal vor, en það er sýning hreyfimyndarinnar „**Sunny Iceland**“, sem Mr. Hal Linker kom með hingað til borgarinnar, 13. febrúar, á vegum World Adventure Tours og Mr. A. K. Gee's, forstjóra þess. Var myndin og skýringar fyrirlesarans með þeim ágætum, sem bezt verður á kosið; má óhætt segja, að myndin varð fólki voru og fjölmörgum öðrum til ununar og fróðleiks, og landi voru og þjóð til sóma. Tel ég, að vel fari á, að þingið votti öllum þeim, sem hér áttu hlut að máli, kærar þakkir. Í þessu sambandi vil ég geta þess, að kunnugir menn telja að til sé jafnvel enn betri Íslandsmynd en sú, er hér var sýnd, og að hún sé í eigu Kjartans O. Bjarnasonar, myndatökumanns í Reykjavík. Um það

hefir verið rætt í stjórnarnefnd félagsins, hvort tök muni vera á því að fá Kjartan til að koma með þessa mynd sína hingað vestur, og til þess að hann, um leið og hann sýnir þessa mynd hér vestra, taki hreyfimynd af Vestur-Íslendingum til sýningar á Íslandi.

Ég hefi nú leitast við að gera grein fyrir því helzta, sem gerzt hefir í félagsmálum vorum á umliðnu ári. Auk hinna venjulegu mála, sem koma fyrir þing, svo sem skýrslur deilda og milliþinganefnda, vil ég leyfa mér að benda væntanlegri dagskrárnefnd á, að ég tel æskilegt að þetta þing: 1) votti ástvinum látinna starfsmanna félagsins samúð á tilhlýðilegan hátt 2) votti þakkir þeim séra Einari Sturlaugssyni, Guðmundu Elíasdóttir, Hal Linker, A. K. Gee og Sögunefndinni; 3) lýsi ánægju sinni yfir því, að deildin **Ströndin** í Vancouver hefir gengið í félag vort; 4) ráðstafi bókaeign sinni; 5) leggi á ráð um það hvernig örva megi íslenzkunám barna; 6) ræði ítarlega um fræðslu- og útbreiðslumál félagsins yfirleitt; 7) athugi samvinnumál við Ísland, með sérstöku tilliti til fréttasambanda, talvírs, útvarps, gagnkvæmra hópferða, bóka- og blaðaviðskipta, útvegun kvikmynda o. s. frv.

Vil ég svo þakka meðnefndarfólki mínu í stjórnarnefndinni ágæta samvinnu á árinu, og öllum þeim mönnum og konum víðsvegar, sem hafa arfleifð vora í heiðri og vinna sjálfu sér, kjörlöndum vorum og fósturjörð til sóma. Sérstaklega vil ég, í félagsins nafni, þakka íslenzku vikublöðunum og útgefendum þeirra hið ómissandi og ágæta vökumannsstarf þeirra í öllum málum er snerta þjóð vora og menningu.

Starfið er margt, en eitt er bræðrabandið, sem tengir oss. Tengdir böndum sameiginlegs uppruna og áhugamála hefjum vér nú störf vor á þessu 35. ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vestur heimi.

Dr. Beck, fyrrverandi forseti félagsins, bar fram tillögu um það, að þingið veitti hinni vönduðu og vel sömdu skýrslu forseta viðtöku. Var tillagan samþykkt með því að þingmenn risu á fætur og klöppuðu forseta lof í lófa.

**Kjörbréfanefnd**

Mrs. S. Backman stakk upp á og séra Jóhann Fredriksson studdi, að forseti skipi þriggja manna kjörbréfanefnd. Var tillagan samþykt og í nefndina skipaðir: Ragnar Stefánsson, Miss Elín Hall og Thorsteinn Gíslason.

**Dagskrárnefnd**

Guðmann Levy lagði til og Dr. Richard Beck studdi, að forseti skipi þriggja manna dagskrárnefnd. Var tillagan borin upp og samþykt og í nefndina skipaðir: Séra Eiríkur Brynjólfsson, Mrs. B. E. Johnson og Ólafur Hallsson.

Forseti skýrði frá því að kveðjuskeyti hefði borist frá Dr. Helga P. Briem í Stokkhólmi, Svíþjóð, og myndi því vísað til sérstakrar nefndar, er fjallar um kveðjur og heillaskeyti, og yrði lesið síðar á þinginu. Bauð hann síðan Dr. Richard Beck að lesa kveðjur til þingsins, er hann hefði meðferðis.

Flutti Dr. Beck fyrst kveðju frá Dr. John C. West, forseta North Dakota háskóla, en hann hefir á undanförnum árum sýnt mikinn vináttuhug í garð félagsins, ekki sízt með því að stuðla að því að Dr. Beck hefir getað sótt þing félagsins í samfleytt 21 ár og unnið félaginu margþætt starf; þessi kveðja var sérstaklega hugnæm, því hún er sú síðasta, er Dr. West sendir félaginu úr forsetasess; hann lætur af forsetastörfum á þessu ári.

Þvínæst flutti Dr. Beck kveðju frá forseta The Society for Advancement of Scandinavian Study, Joseph Alexis, en hann hefir í mörg ár kennt íslenzku við ríkisháskólann í Nebraska. Ennfremur flutti Dr. Beck kveðju frá fræðimanninum og Íslandsvininum Dr. C. Venn Pilcher biskup í Sidney, Australia.

## „Vex hver við vel kveðin orð“

Eftir dr. Richard Beck
Ávarp flutt á Þjóðræknisþinginu
22. febrúar 1954

Gamall talsháttur íslenzkur segir: „Vex hver við vel kveðin orð“, og felast algild sannindi í því forna spakmæli. Það er náskylt talshættinum: „Vex hugur, þá vel gengur“, er samsvarar enska orðtækinu: "Nothing succeeds like success", nema hvað íslenzkan er þar ennþá málfegurri og markvissari. Minnir það á fleyg orð Bólu-Hjálmars: „Íslenzkan er orða frjósöm móðir“.

En því kemur mér nú í hug spakmælið um það, að menn vaxi við góðmæli, að ég hefi meðferðis á þetta 35. þjóðræknisþing okkar, og hið 21. þeirra, sem ég hefi sótt samfleytt, virðulegar og hlýjar kveðjur, er ég vil fylgja úr hlaði með nokkrum orðum.

Fyrst tel ég mér mikinn sæmdarauka að því að mega flytja ykkur enn einu sinni hugheilustu kveðjur og árnaðaróskir háskóla míns, University of North Dakota, og forseta hans, dr. John C. West, og stendur sérstaklega á um þær kveðjur að þessu sinni, því að, eins og dr. West tekur fram í bréfi sínu, lætur hann af forsetastörfum í sumar, og verður þetta því seinasta kveðja hans til okkar úr forsetasessinum. Má okkur Íslendingum vera það saknaðarefni, því að hann hefir

reynzt okkur óvenjulega góðviljaður, og sýnt það í verki með mörgum hætti, svo sem með vinsamlegum og rausnarlegum móttökum kærkominna gesta frá Íslandi, er gist hafa háskólann. Vitanlega átti dr. West einnig sinn mikla þátt í því, að háskólinn krýndi hinn ástsæla, nýlátna vin okkar, dr. Sigurgeir Sigurðsson biskup, sínum hæsta heiðri með því að gera hann að heiðursdoktor, er hann var hér vestan hafs í ógleymanlegu ferðalagi sínu á 25 ára afmæli Þjóðræknisfélagsins. Loks er mér skyldast að minnast þess, að skilningur dr. West á starfi þessa félags og gildi þess hefir gert mér fært að taka tíma frá skyldustörfum mínum á ríkisháskólanum til þess að sitja þjóðræknisþingið ár eftir ár, en auðvitað hefi ég jafnframt orðið að gera sérstakar ráðstafanir varðandi nemendur mína meðan ég sit á þinginu.

Við stöndum því í mikilli þakkarskuld við dr. John C. West, enda sýndum við honum þá maklegu sæmd að kjósa hann heiðursfélaga Þjóðræknisfélagsins fyrir nokkrum árum síðan, og kann hann þann vinsemdarvott okkar vel að meta, eins og fram kemur meðal annars í hlýyrtu bréfi hans.

University of N. Dak.
February 16th, 1954

**Memorandum to Dr. Beck**

The time, I understand, is drawing near when you will be making your annual pilgrimage to Winnipeg to attend the convention of the Icelandic National League of America.

As an Honorary Member of the League—a distinction which I prize highly—may I ask you to represent me at the convention and to deliver my warm personal greetings, together with those of the University, to all in attendance.

Inasmuch as I am further informed that this is the 35th anniversary of the League, I wish to extend to its officers and members my heartiest congratulations on its notable cultural achievements in the past and my best wishes for its continued fruitful work in years to come. In extending these felicitations, I also note with great satisfaction the prominent part which you personally have played in the work of the League during the past two decades, both during your long term as its president and ever since, which has been a source of much gratification to the University.

Further, in view of the fact that this will be my last year as president of the University, as I have already announced my retirement at the end of June, I take this opportunity to pay tribute to the many splendid people of Icelandic origin whom I have had the privilege to be associated with in my more than twenty years as President of the University of North Dakota and during my educational career previous to that.

It is with all these things in mind that I am appointing you as my personal representative at the convention of the League and asking you to present my greetings and good wishes.

**John C. West,**
President

Þá þykir mér, sem fyrrv. forseta Félagsins til eflingar norrænum fræðum (The Society for the Advancement of Scandinavian Study), vænt um að geta flutt ykkur innilegar kveðjur og heillaóskir núverandi forseta þess merka félagsskapar, dr. Joseph Alexis í Lincoln, Nebraska, sem einnig er góðvinur okkar Íslendinga. Hann er sænskur prestssonur og lærdóms- og tungumálagarpur mikill; hefir verið áratugum saman prófessor í nútíðarmálum, bæði germönskum og rómönskum, og lengi forseti þeirrar háskóladeildar, við ríkisháskólann í Nebraska. Eins og hann tekur fram í bréfi sínu, hefir hann gert sér tvær ferðir hingað norður til þess að kynnast Íslendingum; sat í fyrra skiptið „Fróns"-fund og flutti þar ávarp, en dvaldi í seinna skiptið nokkrar vikur á Gimli til þess að kynnast lifandi íslenzku máli. Hóf hann síðan kennslu í íslenzku nútíðarmáli á ríkisháskóla sínum, en er nú nýhættur kennslustörfum, þar sem hann hefir náð aldurstakmarki háskólakennara. Var ríkisháskólinn í Nebraska þriðji háskóli í Bandaríkjunum, sem hóf kennslu í íslenzku nútíðarmáli, en áður hafði það verið kennt árum saman í Cornellháskóla og ríkisháskólanum í N. Dak., og svo bættist ríkisháskólinn í Washington (University of Washington) í hópinn. Hins vegar er norræna, eins og það er venjulega skilgreint, að einhverju leyti kennd í fjölmörgum háskólum í Bandaríkjunum, en vitanlega er þar í rauninni um íslenzku að ræða. Hvað sem því líður, þá hefir dr. Alexis um langt skeið verið einn af helztu frömuðum Norðurlandamála og bókmennta í Bandaríkjunum, og er enn, að því er ég bezt veit, á félagaskrá Þjóðræknisfélagsins; en góðhugur hans í garð okkar Íslendinga lýsir sér glöggt í bréfi hans.

Lincoln, Nebraska
February 14, 1954

Icelandic National League of America
In Convention Assembled
Winnipeg, Manitoba

**Dear Friends of Scandinavian Extraction:**

It is a pleasure for me, serving at

present as the President of The Society for the Advancement of Scandinavian Study, to wish you continued success in the preservation of the Icelandic language with its literary and cultural values.

It has been my privilege on two occasions to visit Manitoba, and my aim both times was to learn something more concerning Icelandic, the Old Scandinavian language which was preserved in Iceland. The first visit was years ago during the Christmas holidays, when the temperature seemed very low to a Nebraskan; the second visit came in summer when I spent a few memorable weeks at Gimli. It was most fascinating to make a study of the Icelandic language in Winnipeg, and Gimli, where I could hear the spoken language.

One of your members, Prof. Richard Beck, has through the years been one of the most loyal members of our Society for the Advancement of Scandinavian Study just as he has been one of the hard workers and a former president of the Icelandic National League of America. I always look forward to meeting him in the beginning of May each year, when our organization holds its annual meeting.

When you hold your meeting next week, I shall be with you in spirit, and I shall imagine that I hear you conversing in that old language of Iceland, a language that will prevail as long as there is an Iceland.

Very sincerely yours

**Joseph Alexis**

Þá vil ég í þriðja lagi leyfa mér að flytja þingheimi kveðjur enn annars hollvinar okkar og heiðursfélaga Þjóðræknisfélagsins, dr. C. Venn Pilchers, biskups í Sydney í Ástralíu. Í nýkomnu bréfi frá honum (dags. 12. febrúar) fer hann fögrum orðum um það, hve mikil ánægja sér sé að iðkun íslenzkra fræða og að samvinnunni við íslenzka vini sína um þau fræði. Hefir hann nýlokið við að þýða „Píslargrát" Jóns biskups Arasonar á ensku, og leyst það prýðilega af hendi, eins og hinar fyrri þýðingar sínar af „Passíusálmunum", „Sólarljóðum" og „Lilju", að ógleymdum öðrum sálmaþýðingum, er út komu í fallegri bók í Ástralíu fyrir nokkru síðan. Hefir hann með þeim hætti víkkað landnám bókmennta vorra, og eigum við Íslendingar sannarlega hauk í horni, þar sem hann er.

En þegar ég minnist óeigingjarns starfs Pilchers biskups í þágu íslenzkra bókmennta og menningar, koma mér í hug hin fögru og sönnu orð Stephans G. Stephanssonar úr merkiskvæði hans um Willard Fiske, hinn mikla velgjörðarmann bókmennta vorra, stofnanda Fiske-bókasafnsins víðfræga í Cornell:

„Hann mat ekki miljónir einar —
hann miðaði auðlegð hjá þjóð
við landeign í hugsjóna heimi
og hluttak í íþróttasjóð —
og var um þann ættingjann annast,
sem yzt hafði og fjarlægast þrengst,
en haldið við sálarlífs sumri
um sólhvörfin döprust og lengst".

Dæmi erlendra manna, eins og þeirra þriggja, sem hér hefir getið verið, er sýnt hafa í verki góðhug til Íslands og okkar Íslendinga og lagt rækt við bókmenntir okkar og tungu, getur verið, og á að vera, okkur Íslendingum sjálfum áminning um það, hve auðugir við erum menningarlega, og jafnframt ærin hvöt til þess, að selja ekki þau menningarverðmæti okkar við sviknu gjaldi né heldur kasta þeim á glæ í hugsunar- og ræktarleysi. Svo þakka ég áheyrnina og bið þinginu ávaxtaríkra starfa og ykkur öllum velfarnaðar í bráð og lengd.

Forseti þakkaði innilega kveðjurnar frá þessum ágætu vinum félagsins og þá sérstaklega kveðjuna frá Dr. West.

Mrs. B. E. Johnson lagði til að þessum kveðjum væri vísað til þeirrar nefndar, er fjallar um kveðjur og heillaóskaskeyti, og var tillagan samþykt.

Fjárhagsskýrsla félagsins var nú lögð fram í prentuðu formi og útbýtt meðal þingmanna. Las síðan féhirðir, Grettir L. Johannson sína skýrslu og lagði til að henni væri vísað til fjármálanefndar. Séra Eiríkur Brynjólfsson bað um útskýringu á tekjuliðnum: Endurgreiðsla frá Sögunefndinni $745,12. Féhirðir greindi frá því að Þjóðræknisfélagið hefði lánað úr eigin sjóð til útgáfunnar $1055 og væri því tilgreind upphæð endurgreiðsla á því láni. Studdi séra Eiríkur tillögu féhirðis að vísa skýrslu hans til fjármálanefndar og var hún samþykt.

Guðmann Levy fjármálaritari las sína skýrslu og lagði til að henni væri vísað til væntanlegrar fjármálanefndar. Var tillagan studd af G. L. Johannson og síðan borin upp og samþykt.

Í fjarveru eftirlitsmanns húseignar félagsins, 652 Home Street, las Grettir L. Johannson skýrslu hans og lagði til að henni væri vísað til fjármálanefndar. Var tillagan studd og samþykt.

**Reikningur féhirðis**

Yfir tekjur og útgjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi frá 18. febr. 1953 til 16. febr. 1954

TEKJUR:

| | |
|---|---|
| Á Royal Bank of Canada,, 18. febr. 1953 | $ 869.12 |

| | | | |
|---|---|---|---|
| Á Royal Bank of Canada,, 18. febr. 1953 | | | |
| Fyrningarsjóður á eign, 652 Home St. | $1,200.00 | | |
| Borgað fyrir viðgerðir á árinu | 945.64 | $ 254.36 | |
| Frá fjármálaritara fyrir meðlimagjöld | $ 372.41 | | |
| Fyrir auglýsingar, XXXIV. árg. Tímaritsins | 1,595.00 | | |
| 652 Home Street | 1,225.00 | | |
| Banka- og aðrir vextir | 27.75 | | |
| Tillög styrktarmeðlima | 373.75 | | |
| Kostnaðaur við að safna tillögum | 110.00 | 263.75 | |
| Seldar tvær myndir | 50.00 | | |
| Endurgreiðsla frá Sögunefndinni | 745.12 | | |
| Seldar lestrarbækur | 1.80 | | |
| Allar tekjur á árinu | | $4,280.83 | |
| Samtals | | $5,404.31 | |

ÚTGJÖLD:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Ársþingskostnaður | | $ 160.10 | |
| Ágóði af samkomu | $49.25 | | |
| Tillag „Fróns" | 30.00 | 79.25 | $ 80.85 |

**Tímarit XXXIV. árg.:**

| | | |
|---|---|---|
| Ritstjórn og ritlaun | $ 266.40 | |
| Prentun og útsending (áður $1,010.50) | 766.80 | |
| Auglýsingasöfnun | 369.88 | $1,403.08 |

**Tímarit XXXV. árg.:**

| | | |
|---|---|---|
| Prentun | | $1,000.00 |
| Risna | | 331.19 |
| Bankagjöld | | 7.90 |
| Símskeyti og frímerki | | 28.17 |
| Ríkisgjöld | | 4.00 |
| Blóm og ýmis kostnaðar | | 62.30 |
| Ferða- og útbreiðslukostnaður | | 114.15 |
| Þóknun fjármálaritara | | 42.15 |
| Allur kostnaður á árinu 1953 | | $3,073.79 |
| Fyrning á 652 Home Street fyrir 1953 | $ 600.00 | |
| Fyrningarsjóður | 254.36 | |
| Á Royal Bank of Canada, 16. febr. 1954 | | $ 854.36 |
| 16. febr, 1954 Á Royal Bank of Canada, Innstæða | | $1,476.16 |
| Samtals | | $5,404.21 |

**Fyringarsjóður á eignum 652 Home St., Winnipeg:**

| | |
|---|---|
| Canada Bonds, 3%, Oct. 1, 1963 | $ 600.00 |
| Innstæða á Royal Bank of Canada | 854.36 |
| Alls | $1,454.36 |

**Grettir Leo Johannson**, féhirðir

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert við hann að athuga.

Winnipeg, Canada, 17. febrúar 1954

**Steindór Jakobsson**
**J. Th. Beck**

**Skýrsla fjármálaritara**

Yfir árið 1953

INNTEKTIR:

| | | |
|---|---|---|
| Frá meðlimum aðalfélagsins | $ 69.50 | |
| Frá sambandsfélögum | 7.00 | |
| Frá deildum | 335.15 | |
| Seld Tímarit | 9.00 | |

ÚTGJÖLD:

| | | |
|---|---|---|
| Póstgjöld undir Tímarit | | $ 44.24 |
| Flutningsgjald fyrir Sögu Vestur-Íslendinga | | 4.00 |
| Afhent féhirði | | 372.41 |
| Samtals | $420.65 | $420.65 |

**Guðmann Levy**, fjármálaritari

**Statement**

652 Home Street, 1953

RECEIPTS:

| | | |
|---|---|---|
| Credit Balance Jan. 1, 1953 | | $ 76.11 |
| Rents collected Jan. 1, to Dec. 31, 1953 | | 3,182,00 |

EXPENDITURES:

| | | |
|---|---|---|
| City of Winnipeg, Taxes | $ 501.27 | |
| Insurance | 67.50 | |
| Decorations, Repairs, Supplies | 648.08 | |
| Fuel | 382.48 | |
| Light & Power | 186.91 | |
| Water & Sewer Rates | 86.11 | |
| Management | 120.00 | |
| Sundry | 19.26 | |
| Icelandic National League | 1,225.00 | |
| | 3,236.61 | |
| Credit Balance Dec. 31, 1953 | 21.50 | |
| | $3,258.11 | $3,258.11 |

The above statement has been audited and found correct.

**Jóhann Th. Beck, Steindór Jakobsson**
Auditors

Fundi frestað til kl. 2.00 e. h.

### ANNAR FUNDUR

ársþings Þjóðræknisfélagsins hófst kl. 2.20 e. h. á mánudaginn 22 febr. Fundargerð fyrsta fundar var lesin og samþykt.

Ragnar Stefánsson las skýrslu kjörbréfanefndar. Hefir deildin „Frón" 10 fulltrúa er fara með 200 atkvæði, auk þess 37 einstaklingsatkvæði, því meðlimatala deildarinnar er 237. Deildin „Báran" sendir 5 erindreka, er fara með 87 atkvæði; Deildin Brúin 3 fulltrúa með 40 atkvæði; Lundar deildin 3 fulltrúa með 42 atkvæði; Gimli deildin 4 fulltrúa með 80 atkvæði; Deildin Ísland 2 fulltrúa með 20 atkvæði. „Ströndin" 1 fulltrúa með 20 atkvæði; Grund 1 fulltrúa með 10 atkvæði; Esjan 4 fulltrúa með 39 atkvæði. Alls er atkvæðamagnið um 600. En sumar deildirnar, sem fjarliggjandi eru senda ekki á þing erindreka í hlutfalli við meðlimatölu deildanna.

### Skýrsla kjörbréfanefndar

Deildin „Frón", Winnipeg

FULLTRÚAR:

Séra Philip M. Pétursson ........20 atk.
Próf Tryggvi J. Oleson ............20 —
Mrs. Hólmfríður Daníelsson ....20 —
Mrs. B. E. Johnson ..................20 —
Mrs. Jakobína Nordal ...............20 —
Mrs. Salome Backman ............20 —
Matthildur Gunnlaugsson ........20 —
Miss Elín Hall ...........................20 —
Gestur Davíðsson ....................20 —
J. Johnson .................................20 —

Deildin „Báran", Mountain, N.D.
Dr. Richard Beck ...................17 atk.
G. J. Jónasson ..........................18 —
A. M. Ásgrímsson ....................17 —
Ted Vatnsdal ...........................17 —
Harold Ólafsson .......................18 —

Deildin „Brúin", Selkirk
Eiríkur Vigfússon ...................12 atk.
Mrs. K. Goodman ....................14 —
Friðrik Nordal ..........................14 —

Deildin „Esjan", Árborg
Gunnar Sæmundsson ...............10 atk.
Séra Robert Jack .....................10 —
Páll Stefánsson ........................10 —
Sigurður Einarsson ...................9 —

Lundar deild
Mrs. L. Sveinsson ....................12 atk.
Séra Bragi Friðriksson ............15 —
Dan Lindal ................................15 —

Deildin Gimli
W. J. Árnason ...........................20 atk.
Mrs. H. G. Sigurðsson ............20 —
J. B. Johnson ...........................20 —
Guðmundur Magnússon ...........20 —

Deildin „Ísland", Morden (24 meðl.)
T. J. Gíslason ...........................10 atk.
Tómas Tómasson .......................10 —

„Ströndin", Vancouver
Séra Eiríkur Brynjólfsson........ 20 atk.

Deildin „Grund", Glenboro
Séra Jóhann Friðriksson ........10 atk.

Thorsteinn Gíslason lagði til og Mrs. L. Sveinsson studdi að skýrsla kjörbréfanefndar væri viðtekin með þeim skilningi, að bætt væri við hana, ef fleiri fulltrúar kæmu á þing.

Forseti benti nú þingmönnum á, að þeir ættu ábyrgðarmiklu hlutverki að gegna á þingi, þar sem þeir færu með umboð frá allt að 20 manns hver. Bað hann þá að minnast þessarar ábyrgðar og sitja þingið sem stöðugast og taka þátt í störfum þess.

Formaður dagskrárnefndar, séra Eiríkur Brynjólfsson las skýrslu þeirrar nefndar. Var bætt við hana lið, er fallið hafði úr í íslenzku blöðunum, og hún samþykt.

### Skýrsla dagskrárnefndar

Dagskrárnefndin leggur til að fylgt sé hinni prentuðu dagskrá þingsins að því viðbættu að skipuð sé allsherjarnefnd, er taki við þeim málum, sem ekki sérstaklega heyra undir starfssvið annara nefnda. — Verður dagskráin þá á þessa leið:

1. Þingsetning
2. Ávarp forseta
3. Kosning kjörbréfanefndar
4. Kosning dagskrárnefndar
5. Skýrslur embættismanna
6. Skýrslur deilda
7. Kosning allsherjarnefndar
8. Skýrslur milliþinganefnda
9. Útbreiðslumál
10. Fjármál
11. Fræðslumál
12. Samvinnumál
13. Útgáfumál
14. Kosning embættismanna
15. Ný mál
16. Ólokin störf og þingslit.

**E. S. Brynjólfsson**
**Kristín Johnson**
**Ólafur Hallsson**

### SKÝRSLUR DEILDA

#### Frá Deildinni „Frón" í Winnipeg

Lesin af Jóni Jónssyni forseta deildarinnar

Starfsemi „Fróns" á þessu ári hefir verið með svipuðu móti og undanfarin ár,

hvorki meiri né minni. Hófst hún með almennum fundi, sem haldin var í Góðtemplarahúsinu mánudagskvöldið, 26. janúar 1953. Forseti deildarinnar, Jón Ásgeirsson, setti fundinn og stjórnaði honum. Megintilefni þessa fundar var það að kjósa fulltrúa til að sitja þing Þjóðræknisfélagsins fyrir hönd „Fróns". Eftirtaldir meðlimir deildarinnar voru kjörnir fulltrúar með 20 atkvæðum hver:

Jón Jónsson
Jón Ásgeirsson
Einar Sigurðsson
Sveinn Pálmason
Miss Elín Hall
Mrs. Salome Backman
Mrs. María Sigurðsson
Ragnar Stefánsson
Lúðvík Kristjánsson

Að þessu loknu hófust umræður um meðlimagjöld félagsmanna. Heimir Thorgrímsson hafði framsögu í þessu máli. Umræður urðu allmiklar og voru ræðumenn yfirleitt þeirrar skoðunar, að nauðsyn bæri til að hækka gjaldið upp í tvo dali. Fulltrúum deildarinnar var falið að fylgja þessu máli eftir á þinginu. — Þessu næst fór fram sameiginlegur söngur fundarmanna. Pétur Magnúss. stjórnaði söngnum, en Gunnar Erlendsson var við hljóðfærið. Þá flutti Valdimar Lárusson kennari ræðu, er hann nefndi „Minningar úr Íslandsferð". Fundarmenn gerðu góðan róm að ræðunni og þökkuðu Valdimar með lófataki. — Um 35 manns sóttu fundinn.

Fróns-mótið var að þessu sinni haldið í Góð templarahúsinu mánudagskvöldið 23. febrúar. Eins og oftast áður var mótið ágætlega sótt, og fór í alla staði vel fram. Skúli Hrútfjörð átti að vera aðalræðumaður kvöldsins, en þegar til kom, gat hann ekki komið, en fékk Valdimar Björnsson, fjármálaritara Minnesotaríkis, til að mæta fyrir sína hönd. Flutti Valdimar erindi Skúla á hressilegan og skemmtilegan hátt, eins og hans var von og vísa; einnig mælti hann nokkur hvatningarorð frá eigin brjósti. Ýmislegt fleira var á skemmtiskrá mótsins, sem ekki verður rakið hér.

Þann 13. apríl efndi Frón til almenns fundar í Góðtemplarahúsinu, kl. 8 s.d. Thor Víking, Eric Ísfeld og Einari Sigurðssyni hafði verið falið að sjá um þennan fund. Eric Ísfeld hafði fundarstjórn með höndum. Fór hann nokkrum orðum um tilefni fundarins, en það var: Byggingarmálið svonefnda. Síðan gaf hann Dr. Valdimar J. Eylands orðið, en hann hafði verið fenginn til að hafa framsögu í málinu. Flutti Dr. Valdimar mál sitt vel og skörulega. Rakti hann meðal annars sögu þessa máls yfir 10 ára tímabil og las upp þingsamþykktir, sem gerðar höfðu verið á þingum Þjóðræknisfélagsins í þessu sambandi. Að ræðu dr. Valdimars lokinni var orðið gefið laust. Margir tóku til máls og voru umræður hinar fjörugustu, og virtist vera töluverður áhugi fyrir þessu stórmáli. — Í lok umræðna gerði forseti Þjóðæknisfélagsins það tilboð, að félög Íslendinga hér í borg kysu hvert um sig þriggja manna nefnd, sem hann síðar myndi stefna saman til fundar, þar sem þetta mál yrði tekið til rækilegrar athugunar. Tilboð hans var stutt af Mrs. S. Backman og samþykkt með samhljóða atkvæðum. Fyrir hönd Fróns voru kjörnir í þessa nefnd: Guðmundur A. Stefánsson, Eric Ísfeld og Jón Ásgeirsson. Sennilegt er, að einhver af fulltrúum Fróns leggi tillögur þeirra fyrir þetta þing.

Til nýlundu má telja, að á þessum fundi skemmti þekktur sjónhverfingamaður fundarmönnum. Ennfremur voru lesnar rímur af hljómplötum, sem kveðnar voru á Alþingishátíðinni 1930 af nokkrum beztu kvæðamönnum Íslands. Jónbjörn Gíslason skýrði rímurnar og sá um flutning þeirra. — Sextíu manns sóttu fundinn.

Föstudagskvöldið, 25. september, efndi séra Einar Sturlaugsson, prófastur á Patreksfirði, til samkomu í Sambandskirkjunni á vegum Fróns. Á Þessari samkomu flutti séra Einar erindi, er hann nefndi: „Litið yfir land og sögu". Erindi hans var hið fróðlegasta og að sama skapi skemmtilegt. Að því loknu sýndi séra Einar kvikmyndina frægu „Björgunin við Látrabjarg"; einnig sýndi hann kvikmynd í eðlilegum litum, af merkum stöðum og byggingum á Íslandi. Samkoma þessi var allvel sótt, eða á annað hundrað manns.

Mánudagskvöldið, 2. nóvember, hafði stjórn Fróns ákveðið að halda almennan fund í Góðtemplarahúsinu. Jón Jónsson, Jón Ásgeirsson og Heimir Thorgrímsson voru kosnir í nefnd til að sjá um þennan fund. Höfðu þeir þegar gengið frá dagskrá fyrir fundinn, en er leið að hinum ákveðna fundardegi Fróns, bárust tilmæli frá stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, þar sem þess var óskað, að Frón frestaði fundi sínum, vegna þess að hingað væri væntanleg á vegum Þjóðræknisfélagsins, söngkonan góðkunna Guðmunda Elíasdóttir, og hefði verið ákveðið, að hún efndi til söngsamkomu í Fyrstu lútersku kirkju þriðjudagskvöldið 3. nóvember. — Stjórn Fróns ákvað af þessum sökum að fresta fundi sínum til 30. nóvember, en þá skyldi aðalfundur deildarinnar haldinn. Þeim Jóni Jónssyni, Jóni Ásgeirssyni og Heimi Thorgrímssyni var falið að sjá um dagskrá aðalfundarins. — Sjö nefndarfundir voru haldnir á árinu.

Fjárhagur deildarinnar er með betra

móti, og má það að miklu leyti þakka fjármálaritara, Jóni Jónssyni. — Meðlimatala deildarinnar hefir aukizt töluvert á árinu og eru meðlimir nú 237. Meðlimagjöldin námu 274 dölum, en það er hærri tala, en nokkru sinni áður getur um í sögu Fróns. — Til tíðinda má telja, að á þessu ári gerðist frú Anna Margrét Levy ævifélagi Þjóðræknisfélagsins, og er hún fyrsta konan, sem það hefir gert.

Eins og undanfarin ár, annast Frón um bókasafn Þjóðræknisfélagsins. Jón Jónsson er bókavörður og hefir hann á þeim vettvangi leyst af hendi mikið og gott starf. Safninu hafa bætzt allmargar nýjar bækur á árinu og aðsókn að því hefir verið með betra móti.

Skýrsla þessi ber það með sér, að enn er töluverður áhugi fyrir þjóðræknismálum hér í borg, en samt megum við ekki hugsa sem svo, að allt sé eins og það á að vera í þessu efni. — Nei, það ríður á því nú meir en nokkru sinni fyrr, að við höldum vel hópinn og herðum sóknina. Enginn má liggja á liði sínu. Verum minnug orða frelsishetjunnar miklu — Jóns Sigurðssonar forseta: — „Sameinaðir stöndum vér, sundraðir föllum vér!“

**Jón Ásgeirsson**, forseti
**Thor Víking**, ritari

### Frá deildinni „Báran“, Mountain

Þann 6. febr. 1954 var ársfundur Báru haldinn að Mountain, N. Dak., og voru þessir kosnir í framkvæmdarnefndina, sem fylgir:

G. J. Jónasson, forseti
Stefán Indriðason, varaforseti
H. B. Grimson, skrifari
V. A. Bjornson, varaskrifari
Haraldur Ólafsson, féhirðir
S. A. Bjornson, varaféhirðir
Páll B. Ólafsson, fjármálaritari
O. G. Johnson, varafjármálaritari
Hannes J. Bjornson, skjalavörður.

Fjórir almennir fundir hafa verið haldnir á árinu, heldur illa sóttir, en ágætir í alla staði, uppbyggilegir og mjög skemtilegir. — Þrír nefndarfundir voru haldnir á árinu.

Þann 13. október 1953, lézt séra E. H. Fáfnis í sjúkrahúsinu í Cavalier; var það mikill skaði fyrir prestakallið og stórt skarð, sem seint mun fyllast. Blessuð sé minning hans. — Hann var forseti Báru þegar hann dó.

Þann 1. október s.l. kom hér á vegum Báru séra Einar Sturlaugsson prestur frá Íslandi og hélt fyrirlestur í kirkjunni að Mountain og sýndi kvikmyndina „Björgun við Látrabjarg“; var hvorttveggja ágætt. Ræðan var ágæt og svo skýrði hann svo nákvæmlega myndina. Samkoman var vel sótt og fór ágætlega fram.

Svo kom hér einnig á vegum Báru frú Guðmunda Elíasdóttir frá New York, og söng hún hér í samkomuhúsinu að Mountain þann 17. nóv. 1953 fyrir fullu húsi og hreif alla, sem heyrðu; hún söng af þeirri list að allir dáðust að og öll framkoma hennar var henni til stórsóma og öllum sem heyrðu til ánægju. Hafi hún kæra þökk fyrir komuna.

Bára telur nú 87 meðlimi. — Þeir, sem hafa dáið á árinu og voru meðlimir Báru, eru: Séra Egill H. Fáfnis, Mr. og Mrs. K. G. Kristjánsson, Hannes Kristjánsson og Barney Eyford. Blessuð sé minning þeirra.

Bára tók drjúgan þátt í hátíðinni fyrir byggðirnar hér í sumar; og á ársfundi Báru nýafstöðnum var ákveðið að halda hátíð hér 17. júní.

Kær kveðja til þingheims og gangi alt sem bezt.

Allir heilir unz við sjáumst næst.

**G. J. Jónasson**, forseti
**H. B. Grimson**, skrifari

### Frá deildinni „Grund“ í Argyle

Lesin af séra Jóhanni Friðrikssyni

Deildin hefir lítið starfað á þessu ári. Enginn fundur hefir verið haldinn, og embættismenn eru þeir sömu og áður. Forseti, B. S. Johnson, skrifari og féhirðir, G. J. Oleson.

Undiritaður hefir ekki, sökum lasleika getað komið á mannamót eða staðið í neinu stríði, en ekkert gengur í þjóðræknisstarfinu, nema með því að ganga fyrir hvers manns dyr. Tímaritið hefi ég reynt að útbreiða eftir föngum, en þar hefi ég líka staðið höllum fæti; flestir Íslendingar eru að gefa upp íslenzkuna, og vilja helzt ekkert íslenzkt kaupa. Deildin átti góðan þátt í því að safna fé fyrir íslenzka stólinn við Manitoba-háskólann, lukkaðist það framar vonum. Deildin og meðlimir hennar hafa eftir megni reynt að styrkja íslenzk málefni, sem til sæmdar mætti Íslendingum verða; hefir hún átt góðan þátt í því að taka á móti gestum frá Íslandi og víðar að.

Farið hefir verið fram á það við séra Jóhann Fredriksson, að hann taki við deildinni, og er það von okkar að hún endurfæðist á komandi ári, að einhverju leyti. Deildin og meðlimir hennar áttu ágætan þátt í því að leita og veita upplýsingar í sambandi við samningu „Sögu Argyle-byggðar, sem kom á markaðinn s.l. ár, og sölu hennar, sem í Argyle gekk ágætlega vel. Tveir meðlimir deildarinnar voru burtkallaðir á árinu, Mrs. G. S. Paulson og Mrs. B. Mýrdal; voru þær ágætir meðlimir deildarinnar, og er þar skarð fyrir skildi.

Hugheilar hamingjuóskir til þjóðræknisþingsins og megi þess sæmd verða sem mest íslenzkum þjóðræknismálum til vegs og sóma.

Dagsett í Glenboro, Man., 2. febr. 1954

**G. J. Oleson,** skrifari og féhirðir

**Frá deildinni „Ströndin" í Vancouver**

Lesin af séra Eiríki Brynjólfssyni, sem jafnframt flutti árnaðaróskir til þingsins og kveðjur til forseta, Dr. Eylands, og þakkir fyrir heimsókn hans til „Strandar". Lét forseti í ljósi fögnuð þingsins yfir því, að „Ströndin" væri nú orðin fullgild deild í félaginu og bað séra Eirík að flytja henni kveðjur og blessunaróskir.

Þrír fundir haldnir. Á einum þeirra flutti séra E. Brynjólfsson snjalt erindi um samvinnu. Þess skal getið, að forseti deildarinnar var fjarverandi um 2ja mánaðatíma um það leyti, er haustfundir byrja venjulega.

1. febrúar 1953 stofnaði „Ströndin" velferðarsjóð á gamalmennaheimilinu Höfn, með $25.00 byrjunar-stofnfé.

17. marz, góð samkoma, þar sem séra E. Brynjólfsson flutti gott erindi. 17. júní, samkoma í félagi með ungmennum kirkjusafnaðar. Vel æfður söngflokkur, og ræða flutt af Dr. R. Karlsson. Deildin stóð að móttökum og samsæti fyrir hr. Helga Elíasson fræðslumálastjóra.

10. júlí, samkoma á Hotel Georgia í sambandi við komu forseta Þjóðræknisfélagsins, Dr. V. J. Eylands, þar sem hann flutti snjallt erindi og aðrir tóku til máls.

27. júlí borgaði Ströndin fyrir 9 vistmenn Hafnar á Íslendingadagssamkomu í Peace Arch-garðinum. 21. ágúst fjölmenn samkoma þar sem séra Einar Sturlaugsson, er var hér á vegum Strandar, flutti ágætt erindi og sýndi litkvikmyndir að heima.

Þá hefir séra E. Brynjólfsson haldið uppi íslenzkukenslu á vegum Strandar með góðum árangri.

Ströndin hefir um mörg ár átt 2 fulltrúa í Central Scandinavian Comm., félagsskap allra skandinavisku þjóðanna. Aðalfulltrúi fyrir n.k. ár er Dr. Július Friðleifsson.

Vancouver, B.C., 18. febr. 1954

**G. Stefánsson,** ritari

N.B. 3ja manna nefnd kosin til samvinnu við deildirnar í Blaine og Seattle til að starfa að þjóðræknismálum.

**Fjárhagsskýrsla yfir inntektir og útgjöld árið 1953**

— Samandregin úr bók féhirðis —

Inntektir á árinu 1953, að meðtöldum fyrra árs sjóði ....................$587.00.

Útgjöld fyrir sama ár ....................$341.00

Á banka 1. janúar 1954 ....................$246.00

Með virðingu, yðar

**S. Eymundsson,** forseti

**C. H. Ísfjörð,** féhirðir

**Frá deildinni „Esjan" í Árborg**

Forseti deildarinnar, Gunnar Sæmundsson, las skýrsluna.

Á síðastliðnu ári voru haldnir tveir meðlimafundir, auk þess fundir bóka-, starfs- og samkomunefnda. Bókasafn deildarinnar hefir verið starfrækt til afnota fyrir meðlimi eins og að undanförnu. Bókavörzlu hafa annazt þau hjónin Tímóteus og Sesselja Böðvarsson. Á árinu voru bækur og tímarit keypt fyrir $39.00, auk þess kostað til viðgerðar á bókum. 670 bækur voru lánaðar út á árinu. Á síðastliðnu ári fór deildin þess á leit við sveitaráð Bifrastar að fá varanlegan samastað fyrir íslenzka bókasafnið í hinu nýja ráðhúsi sveitarinnar, og var það auðfengið. Er ráðgert að bókunum verði komið þar fyrir áður en langt um líður.

Deildin stofnaði til íslenzkrar skemtisamkomu á síðastliðnu hausti; þar kepptu börn og ungmenni í þrem aldursflokkum í íslenzkri framsögn, einnig skemti æskulýður með íslenzkum söng, auk þess brá Finnbogi Guðmundsson fyrir augu fólks ýmsum furðum úr íslenzku landslagi með tröllamyndum sínum, sem yngri og eldri höfðu óblandna ánægju af. Dómnefnd í framsagnarkeppninni voru þeir prófessor Finnbogi Guðmundsson, Dr. Stefán Björnsson og Þór Víkingur. Erum við þessum mönnum innilega þakklát fyrir komuna, sérstaklega viljum við þakka Finnboga Guðmundssyni fyrir hans frammistöðu alla með að fá dómendur með sér og eins að útvega fararstjóra, sem var Snorri Rögnvaldsson, er dyggilega flutti hópinn á áfangastað og skilaði honum að loknu erindi heim aftur.

Þá er þess að geta, að deildin tók að sér viðbúnað fyrir samkomu séra Einars Sturlaugssonar að Árborg og Riverton, og eins að greiða ferð hans milli manna meðan hann dvaldi í Norður-Nýja-Íslandi. — Í lok samkomunnar, er hann hélt að Árborg, voru tekin samskot að upphæð $45.00, sem séra Einari var afhent í viðurkenningarskyni fyrir komuna og ánægju þeirrar, er fólk naut bæði af orðum hans og kvikmyndinni „Björgunarafrek við Látrabjarg", er hann sýndi. Eins hafði deildin vanda af komu söngkonunnar frú Guðmundu Elíasdóttur, bæði að auglýsa samkomu hennar að Árborg og sjá henni fyrir húsnæði og farkosti milli stöðva í Norður-Nýja-Íslandi og til Lundar.

Maklegt er að minnast á ágætt sam-

starf deildar-meðlima í sambandi við framangreinda atburði, má þar tilnefna aðstoð við að æfa börn í söng og framsögn, fyrirgreiðslu fólk er komið hefir að, í þágu deildarinnar og Þjóðræknisfélagsins auk annars fleira, að því ógleymdu að alt slíkt hefir verið af hendi látið endurgjaldslaust.

Við eigum á bak að sjá tveim mönnum, er féllu í valinn á liðnu ári; síðastliðið vor dó Marteinn Jónasson og nú fyrir nokkrum vikum Valdimar Jóhannesson. Báðir voru þeir góðir styrktarmenn íslenzkra félagsmála, bókfróðir og íslenzkufærir í bezta lagi.

Embættismenn eru þetta ár:

Gunnar Sæmundsson, forseti
Séra Robert Jack, varaforseti
Herdís Eiríksson, ritari
Emily Vigfússon, vararitari
Tímóteus Böðvarsson, gjaldkeri
Guðmundur O. Einarsson v.-gjaldkeri
Sigurður Einarsson, fjármálaritari

**Yfirlit yfir fjárhag deildarinnar:**

| | |
|---|---|
| Í sjóði um áramót 1952—'3 | $199.00 |
| Inntektir á árinu | 132.00 |
| Samtals | 331.00 |
| Útgjöld á árinu | $107.00 |
| Í sjóði um áramót 1953 | $224.00 |

Með beztu óskum til þjóðræknisþingsins
Virðingarfyllst,

**Gunnar Sæmundsson,** forseti
**Herdís Eiríksson,** ritari

Árborg, Man., 18. febrúar 1954

**Frá Lundar deildinni**

Las Mrs. L. Sveinsson þessa skýrslu:

Fjórir almennir fundir hafa verið haldnir á árinu, og stjórnarnefndin hefir komið saman þegar þess hefir verið þörf.

Það kom til tals fyrir nokkrum árum, að æskilegt væri að sameina Lestrarfélög Grunnavatns- og Álftavatns-bygða, því Lestrarfélagið Mentahvöt í Grunnavatnsbygð hefir ekki verið starfrækt í mörg ár. Í haust varð það að samkomulagi milli nefndar frá Lundar-deildinni og bókavarðar í Grunnavatnsbygð að sameina félögin. Og eru nú bækurnar komnar til Lundar, er það stórt og merkilegt bókasafn.

Deildin hélt eina samkomu á árinu til arðs fyrir Lestrarfélagið. Einnig stóð hún fyrir söngskemtun frú Guðmundu Elíasdóttur, var sú samkoma vel sótt og er óhætt að fullyrða, að fólk var hrifið af söng og framkomu frú Guðmundu. Annar góður gestur heimsótti okkur, séra Einar Sturlaugsson, prófastur frá Patreksfirði; messaði hann á Lundar og sýndi hina stórmerku hreyfimynd „Björgunarafrekið við Látrabjarg".

Ársfundur var haldinn 28. janúar, og voru eftirfylgjandi kosnir í embætti fyrir þetta ár:

Ólafur Hallsson, forseti
Kári Byron, varaforseti
Ljótunn Sveinsson, skrifari
Margrét Björnsson, varaskrifari
Daníel Lindal, féhirðir
Ásgeir Jörundsson, varaféhirðir
Ágúst Eyjólfsson, bókavörður
Meðlimatala 42.

**Ólafur Hallsson,** forseti
**L. Sveinsson,** skrifari

**Frá Gimli deildinni**

Þessa skýrslu las varaforseti deildarinnar, Mrs. H. G. Sigurdson

Deildin „Gimli" hefir verið vel vakandi þetta síðastliðna ár.

Með ársbyrjun gaf deildin $25.00 til fjölskyldu, sem missti alt sitt í eldi. Einnig voru $25.00 gefnir í Gimli grafreits-sjóð, (öll félög bæjarins leggja í þennan sjóð).

Deildin hefir haft þrjá fundi á árinu, og stjórnarnefndarfundir hafa verið hafðir þegar þörf hefir krafist.

Í ágúst stóð deildin fyrir kveðjusamsæti fyrir Mr. og Mrs. Jón J. Johnson, sem var forseti deildarinnar í tvö ár.

Í september stofnaði deildin leikflokk. Sá leikflokkur lék á 10 ára afmæli deildarinnar í nóvember (Happið). Síðan var leikið í Winnipeg, á Betel og í Mikley. Ég var beðinn um að skila kæru þakklæti fyrir innilegar viðtökur á öllum þessum stöðum.

Þann 6. nóvember stóð deildin fyrir að taka á móti hinni vinsælu og góðu söngkonu frú Guðmundu Elíasdóttir.

Kvöldlestrarfundir próf. Finnboga Guðmundssonar voru hafðir aðra hvora viku í miðskóla bæjarins, frá 9. jan. til 9. maí, og þóttu það skemtilegar kvöldstundir. Einnig er þessu haldið áfram í vetur. Próf. F. Guðmundsson valdi bækur og dró upp að nokkru leyti kensluskrá, en forstöðu hefir Miss Sigurbjörg Stefánsson.

Barnakensla í íslenzku var hafin 10. desember. Kennslukonur eru: Mrs. G. Thorsteinsson, Mrs. J. B. Johnson, Mrs. W. J. Árnason, Mrs. G. J. Johnson og Mrs. I. N. Bjarnason.

Á ársfundi voru kosin í embætti:

Mrs. Kristín Thorsteinsson, forseti
Mrs. H. G. Sigurðsson, varaforseti
Mr. I. N. Bjarnason, ritari
Mrs. I. N. Bjarnason, vararitari
Mr. W. J. Árnason, féhirðir

Mrs. W. J. Árnason, varaféhirðir
Mr. Hjálmur V. Thorsteinsson, fjármálaritari
Mr. Sigurjón Jóhannsson, varafjármálaritari
Mrs. H. S. Stevens, skjalavörður

Fjárhagsskýrsla deildarinnar sýnir í sjóði, 20. febrúar, 1954, $160.23.

Kær kveðja til þingsins

**Kristín Thorsteinsson,** forseti
**Ingólfur N. Bjarnason,** ritari

**Frá deildinni „Ísland" í Morden**

Skýrsluna las Mrs. Lovísa Gíslason

Deild vor hafði aðeins 3 fundi á árinu. Við þökkum Þjóðræknisfélaginu fyrir að haga þannig ferðum séra Einars Sturlaugssonar, er ferðaðist um á vegum félagsins, að við fengum tækifæri til að sjá og hlusta á þann ágæta mann. Séra Einar flutti fróðlega ræðu og sýndi myndir frá Íslandi hjá okkur miðvikudaginn 30. sept. Flest alt íslenzka fólkið í bygðinni kom til að sjá og hlusta á séra Einar. — Ekki vildi séra Einar þiggja neina peninga frá deildinni okkar upp í ferðakostnað sinn, en sagðist skyldi taka á móti gjöf frá félaginu „Sjóslysvarnarsjóð Íslands", ef við óskuðum þess, svo samskot voru tekin, og hann var beðinn að afhenda áminstu félagi þessa litlu gjöf.

Föstudaginn 27. nóvember 1953, fengum við annan góðan gest, prófessor Finnboga Guðmundsson frá Winnipeg. Er þetta í annað skipti, sem hann heimsækir okkur. Hann flutti snjalla ræðu, þar sem hann meðal annars, sagði frá flugferðinni til Íslands síðastliðið sumar. Einnig sýndi hann ágætar myndir „Dimmuborgir" og fleiri myndir. — Fólk hafði þarna mjög ánægjulegt kvöld, og er stórþakklátt próf. Finnboga fyrir komuna og alla vinsemd frá því fyrsta.

Meðlimatala er lík og að undanförnu.

Með beztu óskum til Þjóðræknisfélagsins og þings þess.

Vinsamlegast,

**Thorsteinn J. Gíslason**

Þjóðræknisdeildin „Ísland" sendir þessa erindreka á þingið:
Mr. T. J. Gíslason
Mr. T. Thomasson.

**T. Thomasson,** forseti
**G. Thomasson,** skrifari

**Frá deildinni „Brúin" í Selkirk**

Framvísað af Eiríki Vigfússyni

Deildin hafði 7 starfsfundi á árinu, sem voru vel sóttir, og fjórar arðberandi samkomur, og hefir því deildin verið vel starfandi.

Einnig höfðum við því láni að fagna, að séra Einar Sturlaugsson prófastur frá Patreksfirði kom og messaði í kirkjunni okkar og sýndi myndir eftir messu. Var það ágæt skemtun og uppbyggileg. Svo kom hin fræga söngkona frú Guðmunda Elíasdóttir og hafði hér ágæta söngsamkomu þann 5. nóvember og hlaut hún aðdáun hjá öllum áheyrendum sínum, og vonum við að fá að sjá og heyra fleiri góða gesti að heiman, þegar tækifæri gefst.

Báðir þessir gestir komu hingað á vegum Þjóðræknisfélagsins og er deildin þeim mjög þakklát fyrir þeirra starf og hjálp í þessu máli.

Deildin hefir haft á bak að sjá tveimur meðlimum á árinu, Trausta Ísfeld og Guðjóni Friðrikssyni, sem báðir voru okkar málum mjög hlyntir.

Fjórir nýir meðlimir gengu í félagið á árinu: Gestur Jóhannson, Jóhanna Goodman, Márus Benson, og Helgi Árnason.

Meðlimatala deildarinnar er nú 43.

Óskum við svo Þjóðræknisfélaginu allrar blessunar og góðs gengis.

**E. Magnússon,** forseti
**A. Goodbrandson,** skrifari

Þá las skrifari þrjár skýrslur frá deildum, er ekki sendu fulltrúa:

**Frá deildinni „Aldan" í Blaine, Wash.**

Hið nýliðna ár, árið 1953, hefir Aldan haldið í horfinu líkt og að undanförnu. Fjórir almennir fundir hafa verið haldnir og þrír stjórnarnefndarfundir.

Fullveldisdagur Íslands, 17. júní, var haldinn hátíðlegur með almennri skemtisamkomu að kveldi þess dags; var hún vel sótt og tókst í alla staði vel. Erindi flutti séra Eiríkur Brynjólfsson frá Vancouver og var að því gerður hinn bezti rómur, enda er hann orðinn þektur hér sem snjall ræðumaður, er lipur í framkomu og gott til hans að leita. Ágóði af samkomunni varð $84.00 — Áttatíu og fjórir dalir. — Eftir fundarsamþykt var bætt við þá upphæð úr Öldu-sjóð, og $100.00 — eitt hundrað dalir — lagðir í sjóð íslenzka kennslustólsins við Manitoba háskóla.

Aldan telur sér það til happs og gildis að hafa veitt móttöku velmetnum manni úr hópi leiðandi merkismanna á Íslandi, séra Einari Sturlaugssyni prófasti frá Patreksfirði á Íslandi, sem var í ferð vestan hafs s.l. sumar í boði háskólaráðs Manitoba-háskólans í Winnipeg. Samsæti var haft 22. ágúst til að gefa fólki kost á að sjá hann og heyra. Flutti hann við það tækifæri erindi og sýndi hreyfimyndir. Næsta dag varð hann við þeirri beiðni að flytja guðsþjónustu að elliheimilinu Staf-

holti, og var hvorutveggja til stórfeldrar ánægju þeim sem þess nutu; má fullyrða að hann á hlý hugtök fólks hér fyrir þessa stuttu viðkynningu.

14. nóvember hélt elliheimisnefnd Öldu skemtisamkomu til ágóða fyrir heimilið. Fyrir ötulleik nefndarinnar og vingjarnlega aðstoð fólks tókst hún með ágætum. Inntektir að frádregnum kostnaði voru $103.26 — eitt hundrað og þrír dalir og tuttugu og sex cent — og ganga eitt hundrað dalir af því til elliheimilisins.

Meðlimatala um þessi áramót 43.

**A. E. Kristjánsson,** forseti
**Dagbjört Vopnfjörð,** ritari

**Frá deildinni „Vestri" í Seattle, Wash.**

Á árinu 1953 voru haldnir 10 reglulegir fundir og tveir stjórnarnefndarfundir.

Fjórir meðlimir dóu á árinu, þau: Jóhann Kárason, Guðríður Eiríksson (f. Auðunsdóttir), Hannes Kristjánsson og María Frederick (fædd Sumarliðadóttir).

Átta nýir meðlimir gengu í félagið.

Samkomur voru haldnar 17. júní og um áramótin. Þá gekst félagið fyrir Íslendingadagshátíðahaldi að Silver Lake. — Ferð var farin til Blaine, Wash., að heimsækja vistfólk í Stafholti; Kvenfélagið „Eining" tók einnig þátt í þessari heimsókn.

Efnt var til samkomu fyrir Njál Thoroddson ljósmyndara. Deildin tók þátt í Scandinavian Musical Festival, og kveðjusamsæti séra Eric H. Sigmars og frúar hans, Svövu. Séra Einari Sturlaugssyni var haldið heiðurssamsæti, og loks var frú Jakobína Johnson heiðruð að liðnu sjöunda tugs afmæli.

Bókasafn Vestra er yfir 1000 bindi, en ekki er það vel rækt, nú notað aðeins af 20 manns. Þó eru nokkrar bækur keyptar árlega og eins berast bækur að gjöf.

Meðlimir „Vestra" teljast um 80 manns. Meðalaðsókn á fundum 30.

Fundir byrja og enda með söng, auk þess er skemtiskrá á hverjum fundi, lesið félagsblað og svo framvegis.

Það bar til á árinu, að félaginu hlotnaðist minningargjöf að upphæð fimm hundruð dalir. Gefandinn er frú Salome Guðjohnsen, er þetta til að heiðra minningu eiginmanns hennar, Baldurs heitins Guðjohnsen og Baldurs yngri sonar þeirra hjóna.

Lestrar- og skemtifélagið „Vestri" var stofnað 4. nóv. 1900; einn af aðalhvatamönnum þess var Baldur Þórðarson Guðjohnsen.

Þessa rausnargjöf mætti skoða, sem verðlaun til „Vestra" fyrir freklega hálfrar aldar uppihaldslausa starfsemi, og ætti að hvetja Íslendinga til að geyma enn í heiðri minningu feðra sinna.

**Guðm. P. Johnson,** forseti
**Jón Magnússon,** skrifari

**Frá deildinni „Snæfell" í Churchbridge, Saskatchewan**

Við hér í deildinni „Snæfell" erum orðin svo fá, að það er með naumindum að við getum haldið áfram. Eins og öllum er kunnugt, þá fer eldri Íslendingunum smátt og smátt fækkandi, og yngra fólkið, sem tekur við, annað hvort talar ekki íslenzkt mál eða þá giftist annara þjóða fólki, svo að tilfellið er, að það bætist lítið við hvað meðlimi snertir í deild okkar.

Við eigum gott bókasafn með mikið af góðum bókum, en því miður er lítið af þessum bókum lesnar. Á árinu, sem leið, voru 30 bækur lesnar. Við höfum 10 góða meðlimi, sem eru íslenzku máli mjög hlyntir.

Með beztu óskum um gott og starfsamt þing.

**Marlin Johnson**

Voru allar skýrslur deildanna viðteknar og samþyktar af þingheimi, og báru þær vott um að margar deildirnar starfa með miklum þrótti, þótt sumar þurfi ef til vill einhverrar hjartastyrkingar við.

Séra Eiríkur Brynjólfsson stakk upp á, að kosin væri þriggja manna þingnefnd í allsherjarmál. Studdi Dr. Beck tillöguna, og voru tillögumennirnir útnefndir ásamt Mrs. Lovísu Gíslason frá Morden.

Þingið fól nú forseta að skipa fimm manna þingnefnd í útbreiðslumál; þriggja manna þingnefnd í fjármál; fimm manna þingnefnd í fræðslumál; fimm manna þingnefnd í samvinnumál og þriggja manna þingnefnd í útgáfumál.

Formaður milliþinganefndar í lagabreytingarmálinu, W. J. Lindal dómari skýrði frá því, að hann hefði fengið samþykki ríkisritara á breytingu meðlimagjalds félagsins og væri það nú $2.00 á ári. Hins vegar sagði hann að löggjöf félagsins væri þannig úr garði gerð, að ekki væri hægt að aðskilja grundvallarlög og aukalög, eins og nefndinni hafði verið lagt fyrir.

Vegna misskilnings var ævifélagagjald hækkað upp í $20.00 í stað $30.00.

Samkvæmt tillögu Dr. R. Beck, sem studd var af mörgum, var skýrsla nefndarinnar viðtekin með þakklæti og samþykt.

Dr. Richard Beck flutti skýrslu milliþinganefndar, er falið hafði verið að athuga um samningu kenslubókar í íslenzku, sniðinnar við hæfi vestur-íslenzkra ung-

menna. Er próf. Finnbogi Guðmundsson í þessari nefnd, og hafa þeir haft nokkra samtalsfundi um málið og athugað fjölda byrjendakennslubóka í öðrum tungumálum. Benti Dr. Beck á að þetta væri bráðabirgða skýrsla, og var þeim prófessorunum þakkað og falið að halda áfram starfi þessarar þörfu nefndar, eftir því sem þeim gæfist tími til.

**Skýrsla milliþinganefndar í kennslubókarmálinu**

Eftir nokkrar umræður á síðasta þjóðræknisþingi var okkur prófessor Finnboga Guðmundssyni falið, að athuga möguleika á undirbúningi byrjunarbókar í íslenzku, sem sniðin væri sérstaklega við hæfi vestur-íslenzkra ungmenna, og því einfaldari um innihald og efnismeðferð en kennslubækur þær, sem fyrir hendi eru handa enskumælandi nemendum.

Þrátt fyrir annir okkar beggja og ferðalög síðastliðið sumar, höfum við átt nokkra samtalsfundi um málið, en þó verður hér aðeins um bráðabirgða skýrslu að ræða.

Vegna hagkvæmari aðstöðu minnar, réðist það þannig milli okkar félaga, að ég, sem flyt skýrslu þessa, hæfist handa um að safna að mér byrjendabókum í Norðurlandamálum, sem notaðar eru við kennslu í þeim málum í miðskólum (high schools) og menntaskólum og háskólum (colleges and universities) í Bandaríkjunum.

Hefi ég nú, auk byrjendabókar þeirrar í norsku, sem notuð er í ýmsum miðskólum og háskólum þar í landi, og ég hefi sjálfur kennt árum saman, aflað mér og athugað all-gaumgæfilega hliðstæðar kennslubækur í sænsku og dönsku; einnig hefi ég átt greiðan aðgang að slíkum kennslubókum í þýzku, frönsku og spænsku, þar sem kennslan í öllum erlendum málum á ríkisháskólanum í N. Dakota (University of N. Dakota) er nú undir umsjón minni.

Allar eiga þessar kennslubækur, meðal annars, sammerkt um það, að í stað þess, að öll málfræðin sé prentuð í einu lagi framan við bókina, eins og tíðkast í eldri kennslubókum, þá er málfræðinni í öllum hinum nýju kennslubókum í fyrrgreindum málum skipt í smákafla og dreift um bókina með viðeigandi skýringum, lesköflum og orðasafni. Gerir þetta fyrirkomulag nemandanum námið stórum aðgengilegra og að mörgu leyti auðveldara, heldur en nauðsyn þess, að hann þurfi í hverri lexíu að leita uppi hvert málfræðisatriði framan við bókina.

Annað er það, sem lögð er áherzla á í þessum nýju byrjendabókum í tungumálum. Þær eru það, sem á ensku máli nefnist "graded". Málfræðikaflarnir og þó einkum lesmálið þyngist smám saman, eftir því, sem nemandinn kemst lengra á veg í náminu. En allir, sem fengizt hafa við tungumálakennslu, vita það, að þar er um mikilvægt atriði að ræða.

Loks má á það benda, að í þessum nýju kennslubókum er lesmálið þannig valið, að það veiti, jafnframt námi málsins, nokkra lýsingu á landinu, þjóðinni og menningunni, sem þar er um að ræða. Margar eru þessar byrjendabækur einnig prýddar myndum af landi og þjóðlífi, er bæði gerir þær stórum hugþekkari og eykur á fræðslugildi þeirra.

Með þessu stutta yfirliti höfum við viljað benda á nokkur megin einkenni byrjendabóka í tungumálakennslu, eins og þær tíðkast nú; og ef til þess kæmi, að samin yrði byrjendabók í íslenzku sérstaklega við hæfi vestur-íslenzkra ungmenna, ætti hún, að okkar dómi, að vera með svipuðu sniði um innihald og efnisskipun. Á hitt viljum við einnig leggja áherzlu, að það er mikið verk og vandasamt að semja slíka bók, svo vel fari, því að hversu einföld, sem slík byrjendabók er, verður hún að vera samin á öruggum málfræðilegum grundvelli, annars er fræðslan byggð á sandi, og það er hvorki traust undirstaða né til frambúðar. Enda má á það benda í því sambandi, að allar umræddar kennslubækur fyrir byrjendur eru eftir sérfróða menn, menntaskóla- eða háskólakennara í þeim greinum.

Þetta er, eins og sagt var í málsbyrjun, aðeins bráðabyrgða skýrsla; en ef þingið óskar þess, erum við fúsir á að halda áfram að afla okkur frekari gagna, ráðfæra okkur við þá, sem einhverja sérþekkingu og reynslu hafa í þessum efnum, og leitast síðan við með þeim hætti að koma málinu á fastari grundvöll. Er þá ennfremur tími til að athuga útgáfumöguleika slíkrar bókar, en þá hlið málsins höfum við ekki haft tækifæri til að gaumgæfa að neinu ráði.

Á þjóðræknisþingi þ. 22. febrúar 1954

**Richard Beck**
**Finnbogi Guðmundsson**

Finnbogi Guðmundsson flutti munnlega skýrslu frá milliþinganefndinni, sem starfað hafði að því að minnst var hundrað ára afmælis skáldsins Stephans G. Stephanssonar á virðulegan hátt á síðastliðnu ári; í þessari nefnd voru þeir Dr. Beck og Próf. Skúli Johnson; var Íslendingadagurinn á Gimli helgaður skáldinu, en þar fluttu ræður fyrir minni þess séra Einar Sturlaugsson og Dr. Watson Kirkconnell, forseti Acadia háskólans, og Guttormur J. Guttormsson flutti kvæði. Við háskóla Manitobafylkis var og minningarathöfn á afmæli skáldsins í íslenzka bókaherberginu þar sem munum skáldsins

hefir verið komið fyrir. Ennfremur var haldin minningarsamkoma í Innisfail 3. október. Sagði frú Rósa Benediktsson, dóttir skáldsins, frá ferð sinni til Íslands og minningarathöfnunum þar. Loks samdi Dr. Beck ritgerðir um skáldið, er birtust í fjölda blaða og tímarita og flutti ennfremur fjölda af ræðum um skáldið bæði yfir útvarp og á mannfundum. — Þakkaði þingheimur framsögumanni og nefndarmönnunum þremur með dynjandi lófaklappi.

Forseti las áskorun frá deildinni „Frón" um að byggingarmálið yrði tekið til umræðu á þingi; var áskoruninni vísað til allsherjarnefndar.

25. janúar 1954

Til stjórnarnefndar Fróns

**Nefndarálit um byggingarmál**

Þann 13. apríl 1953 var haldinn almennur fundur á vegum Þjóðræknisdeildarinnar „Frón" hér í borg. Til þessa fundar var boðað með það fyrir augum að ræða um byggingarmál Íslendinga, en eins og mönnum er kunnugt, þá hefir þetta mál verið rætt meira og minna á þingum Þjóðræknisfélagsins mörg undanfarin ár og í því sambandi verið gerðar margar samþykktir. Lengra hefir þetta stórmál aldrei komizt. Dr. Valdimar J. Eylands, forseti Þjóðræknisfélagsins, hafði framsögu í málinu að þessu sinni. Rakti hann gang þess frá því það bar fyrst á góma. Á eftir voru frjálsar umræður. Tóku margir til máls og voru á einu máli um það, að nú yrði látið til skarar skríða í þessu efni. Í lok umræðna gerði forseti Þjóðræknisfélagsins það tilboð, að félög Íslendinga hér í borg kysu hvert um sig þriggja manna nefndir, sem hann síðar myndi stefna saman til fundar, og yrði þá gengið úr skugga um, hvort tiltækilegt þætti að hrinda þessu máli í framkvæmd.

Fyrir hönd „Fróns" vorum við undirritaðir kosnir í byggingarnefnd; var til þess ætlast að önnur félög Íslendinga hér í borg gerðu slíkt hið sama. Hvort hin félögin kusu í þessa nefnd eða ekki er okkur ókunnugt um, en hvað sem því líður, þá var aldrei kallaður saman fundur í þessu sambandi. Við viljum þó ekki láta hér við sitja, heldur leyfum okkur að leggja fyrir þingið eftirfarandi tillögur:

1. gr. Að stjórnarnefnd Fróns komi því til leiðar, að byggingarmálið verði tekið á dagskrá þingsins.

2. gr. Að stjórnarnefnd Fróns hafi valinn mann til að fylgja þessu máli fram á þinginu.

3. gr. Að kosin verði byggingarnefnd á þessu þingi Þjóðræknisfélagsins, sem vinni frá ári til árs, og henni sé gefið vald til að byrja þegar á að safna fé í byggingarsjóð félagsins, og að leitað verði til allra Íslendinga vestan hafs máli þessu til styrktar.

4. gr. Að íslenzku blöðin Lögberg og Heimskringla taki þetta mál til umræðu.

Að okkar áliti er þetta stórmál, en hreint ekki ókleyft, ef viljinn er góður. „Hefjum í verki viljans merki, vilji er allt sem þarf".

**Guðmundur A. Stefánsson**
**Eric A. Ísfeld**
**John Ásgeirsson**

Þá var tekið til umræðu málið um tollfríar bögglasendingar til Íslands. Hafði félagið falið þeim Finnboga prófessor og Ólafi Hallssyni að leita sér upplýsinga um hvað hægt væri að gera í því máli, þegar þeir fóru til Íslands í sumar. Skýrði Finnbogi prófessor frá því að þeir hefðu rætt málið við yfirvöld á Íslandi og hefði Eysteinn Jónsson fjármálaráðherra farið fram á að fá formlega beiðni þessa efnis frá Þjóðræknisfélaginu. Var hún send fyrir jól, en svar enn ókomið.

Forseti skipaði nú þessar nefndir:

**Útbreiðslumál:**

Finnbogi Guðmundsson
Mrs. L. Sveinsson frá Lundar
Mrs. H. A. Sigurdson frá Gimli
Mrs. Matthildur Gunnlaugsson, Winnipeg
A. M. Ásgrímsson, Mountain.

**Fjármálanefnd:**

Grettir L. Johannson
Gunnar Sæmundsson, Árborg
Ólafur Hallsson, Eriksdale.

**Samvinnumál:**

Séra Bragi Friðriksson, Lundar
W. J. Árnason, Gimli
T. J. Gíslason, Morden
Séra Philip M. Pétursson
Mrs. S. E. Björnsson.

Séra Eiríkur Brynjólfsson skýrði frá því að á fundi sem fulltrúar hinna þriggja deilda á Kyrrahafsströndinni hefði haldið 7. þessa mánaðar, hefði verið rætt um það, hvort ekki myndi ráðlegt að breyta lögum Þjóðræknisfélagsins þannig, að fulltrúi eða fulltrúar þessara deilda hefði atkvæðamagn á þingi í samræmi við meðlimatölu þessara deilda.

Sameiginlegur fundur í samvinnunefnd Strandar, Öldunnar og Vestra haldinn í Blaine 7. febrúar 1954 ályktar að beina þeim óskum til þjóðræknisþings Íslendinga 1954, að í lögum Þjóðræknisfélagsins verði ákveðið að deildasambönd megi stofna innan fslagsins, er hafi rétt til að senda einn eða fleiri fulltrúa á þjóðræknisþing Íslendinga í Vesturheimi.

Eftir nokkrar umræður, er W. J. Lindal

dómari og Dr. Beck tóku þátt í, var ákveðið að skipa þingnefnd til að athuga þetta mál og voru þessir skipaðir í laganefndina: W. J. Lindal dómari, séra Eiríkur Brynjólfsson og Dan Lindal.

Fundi frestað til þriðjudagsmorguns kl. 9.30.

Um kveldið hélt Frón sitt Þrítugasta og fimmta miðsvetrarmót í Fyrstu lútersku kirkju og var samkoman afarfjölsótt.

SKEMMTISKRÁ:

OH, CANADA (allir) —
Gunnar Erlendsson við hljóðfærið
Ó, GUÐ VORS LANDS (leikið á píanó)
ÁVARP FORSETA ................Jón Johnson
EINSÖNGUR ....................Lorna Stefánsson
1. Á sprengisandi ............S. K. Hall
2. Ólafur reið með björgum fram
—Þjóðlag
3. Tárið ............................R. Ray
Undirleik annast Elma Gíslason
KVÆÐI (flutt af H. Thorgrímsson)
—Rósmundur Árnason
EINLEIKUR Á FIÐLU Pálmi Pálmason
1. Rímnalög ........Karl O. Runólfsson
a) Allegro
b) Adante
c) Allegro vivace
2. Rhapsodie ............James E. Forrest
RÆÐA ............Séra Theódór B. Sigurðsson
EINSÖNGUR .......................Lilja Eylands
1. Söngur spunakonunnar
—Louise Gundmunds
2. The Lotus Flower ........Schumann
Undirleik annast Sigrid Bardal
**Eldgamla ísafold — God Save The Queen**

**Þriðji fundur**

þjóðræknisþingsins hófst á þriðjudaginn, 23. febr. kl. 10 f. h.

Fundargerð lesin og samþykt með nokkrum viðbættum leiðréttingum. Forseti las kveðju frá Dr. Helga Briem, sendiherra Íslands í Stokkhólmi, og séra Einari Sturlaugssyni á Patreksfirði.

Reverend Valdimar Eylands,
686 Banning St.
Sendi þinginu óskir um gott og blessunarríkt starf og þingmönnum og vinum Beztu kveðjur og árnaðaróskir.
—Helgi

Þjóðræknisfélagið,
686 Banning St., Winnipeg, Man.
Þakka ógleymanlegar móttökur. Íslenzki arfurinn geymist. Lifið heil.
Bróðurkveðjur,
—Sturlaugsson

Var þessum hlýju skeytum fagnað af þingheimi, og þess sérstaklega minnst að Dr. Helgi Briem hefir ávalt sent árs-þingum félagsins heillaskeyti síðan hann var boðsgestur þingsins fyrir mörgum árum. Var ritara og forseta falið að svara kveðjuskeytunum öllum samkvæmt tillögu Dr. Becks og séra Eiríks Brynjólfssonar.

**Skýrsla útbreiðslumálanefndar**

1. Þingið þakkar öllum, sem unnið hafa að útbreiðslumálum á síðastliðnu tímabili.

2. Nefndin væntir þess, að stjórnarnefndin hafi sem fyrr samvinnu við deildirnar um öflun dagskráratriða á samkomum.

3. Nefndin vill minna á tillögur þær, er fram komu á þingi í fyrra um skipan sérstakra erindreka í Íslendingabyggðum bæði nær og fjær, og væntir þess, að stjórnarnefndin láti ekki frest á því verða að hafa samband við áhugafólk í þeim byggðum, þar sem lítt eða ekki hefur verið starfað að undanförnu.

Nefndin treystir því, að hlutur hinna fjarlægari deilda, er örðugast eiga um þingsókn, verði tryggður með nauðsynlegum lagabreytingum.

**Finnbogi Guðmundsson**
**Mrs. L. Sveinsson**
**Mrs. H. A. Sigurdson**
**Mrs. M. Gunnlaugsson**
**A. M. Ásgrímsson**

Framsögumaður nefndarinnar flutti glögga greinargerð nefndarinnar í 4 liðum og var samþykt að ræða það lið fyrir lið samkvæmt tillögu Dr. Becks og Mrs. Backman.

1. liður. Mrs. B. E. Johnson lagði til að hann væri samþykktur, margir studdu, og var liðurinn borinn upp og samþykktur.

2. liður. Dr. Beck lagði til að liðurinn væri samþykktur, Friðrik Nordal studdi. Jón Jónsson, forseti Fróns, spurðist fyrir um það, hvort liðurinn þýddi, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins vildi segja deildum fyrir verkum varðandi skemmtiskrár á fundum þeirra. Próf. Finnbogi skýrði fyrir honum, að hér væri aðeins um tilboð um aðstoð og samvinnu að ræða og væri því engin ástæða til að óttast þetta, og var liðurinn samþykktur.

3. liður. Tillaga Ólafs Hallssonar, studd af mörgum, að hann væri samþykktur.

Dr. Beck tók til máls og kvað margar deildir þurfa á hvatning og leiðsögn að halda og væri æskilegt að stjórnarnefndarmenn félagsins gætu heimsótt deildir, sem standa á höllum fæti. Sagði hann að slík væri algeng venja hjá samskonar félögum eins og til dæmis **Sons of Norway;** hefði það félag sérstakan útbreiðslustjóra, Field Secretary, er væri borgað kaup fyrir útbreiðslustarf sitt, en því miður myndi slík ráðstöfun ókleyf Þjóðræknisfélaginu. Þessi liður var samþykktur.

4. liður var samþykktur samkvæmt til-

lögu próf. Finnboga og Eiríks Vigfússonar, og álitið svo samþykkt í heild.

Próf. Finnbogi Guðmundsson tók nú til máls og minntist þess, að þetta væri fyrsta þjóðræknisþingið, sem haldið væri síðan hin nýja bókasafnshlaða Manitobaháskólans hefði veri tekin til afnota; langaði sig að bjóða þingfulltrúum suður á háskóla til þess að skoða íslenzka safnið og lesstofuna; myndi strætisvagn vera til staðar kl. hálf fimm fyrir alla þá, sem vildu þiggja boðið.

Tillaga Dr. Becks, studd af mörgum, að þetta góða tilboð próf. Finnboga sé þegið með þökkum, með hliðsjón af þeirri bendingu forseta að allir sitji fundi og vinni ötullega fram að þessum tíma, samþykkt.

Séra Eiríkur Brynjólfsson lét í ljósi þá ósk, að ef tími gæfist í þessari ferð, fengju fulltrúar að sjá húseign félagsins að Home Street og bókasafnið og fundarstofuna þar.

**Álit samvinnumálanefndar**

1. Þingið færir Þjóðræknisfélagi Íslands þakkir fyrir góða samvinnu á liðnu starfsári og viðtökur þær, sem Vestur-Íslendingar hafa átt að fagna af hálfu félagsins. Sérstaklega þakkar þingið hinar frábæru móttökur s.l. sumar.

2. Þingið lýsir ánægju sinni yfir komu ýmissra góðra gesta frá Íslandi.

3. Þingið lýsir ánægju sinni yfir því, hve giftulega tókst til um hópferð Vestur-Íslendinga til „gamla landsins" s.l. sumar undir stjórn próf. Finnboga Guðmundssonar.

Flytur þingið próf. Finnboga kærar þakkir fyrir ötult framkvæmda- og brautryðjendastarf í þessum efnum.

Þingið lítur og svo á, að haldið verði áfram á þessari braut og Þjóðræknisfélagið vinni að því, að gagnkvæmar ferðir til og frá Íslandi verði helzt árlega í framtíðinni.

4. Þingið leggur enn áherzlu á fyrri samþykkt sína varðandi æskileg mannaskipti milli Íslendinga vestan hafs og austan. Hvetur þingið félagsmenn til þess að benda ungum námsmönnum á herbergi það á Nýja-Stúdentagarðinum í Reykjavík, sem Hr. Ásmundur P. Jóhannsson gaf til afnota fyrir Vestur-Íslendinga. Þá bendir þingið einnig á Heimilisiðnaðarskóla Frk. Halldóru Bjarnadóttur að Svalbarði.

Þingið fagnar og þeim mannaskiptum, sem átt hafa sér stað á vegum annara aðilja og bendir á þann þjóðernislega styrk, sem skapast við aukna kynningu Íslendinga báðum megin hafsins.

5. Þingið fagnar því, sem framkvæmt hefir verið um öflun útvarpsefnis og hvetur eindregið til frekari aðgerða í þessu máli

6. Þingið lýsir mikilli ánægju sinni yfir þeim framnvæmdum, sem þegar hafa orðið á staðsetningu og ræktun skógarreits Vestur-Íslendinga á Þingvöllum, og flytur Skógræktarfélagi Íslands einlægar þakkir fyrir liðveizlu þess og skjóta framkvæmd í þessu máli.

Nefndin leggur til að skipuð verði árlega af forseta 3ja manna nefnd til að annast áframhaldandi umsjón og framkvæmd af hálfu Vestur-Íslendinga í þessu þarfa máli. Störf þessarar nefndar verða einkum fólgin í þessu:

a) að kynna á allan hátt og vekja áhuga á þessu máli vestan hafs,
b) að afla fjár til aukinnar ræktunar í reit Vestur-Íslendinga á Þingvöllum,
c) að styðja Skógræktarfélag Íslands í öflun fræja og að hafa á allan hátt sem bezt samstarf við það í þessum efnum.

7. Þingið flytur þeim, er unnið hafa vel að því að koma vinagjafamálinu áleiðis og væntir farsælla lykta þess máls.

8. Þingið fagnar þeim upplýsingum um bréfaviðskipti unglinga báðum megin hafsins, sem fram komu í ársskýrslu forseta. Beinir þingið þeirri áskorun til foreldra, presta og annara, sem með aðstöðu sinni gætu stutt að þessu, að hvetja og aðstoða börn og unglinga til slíkra bréfaviðskipta.

9. Þingið leggur áherzlu á þá hugmynd, er fram kom hjá forseta í ársskýrslu hans, að fenginn yrði kvikmyndatökumaður frá Íslandi til sýninga á íslenzkum kvikmyndum hér og einnig verði gerð gangskör að því, að gjörð verði söguleg kvikmynd af Vestur-Íslendingum, er sýndi landnám þeirra og svipmyndir úr lífsbaráttu þeirra hér vestra

10. Nefndin bendir á, að æskilegt væri, að einstakir bæir eða héruð vestan hafs leituðu vinasambanda við sér líka staði um stærð og kjör á Íslandi, t. d. gætu unglingafélög staðanna, kvenfélög, söfnuðir og önnur félagssamtök haft náin samskipti á ýmsan hátt.

Nefndin lítur svo á, að þetta mætti verða til þess að auka mjög nána kynningu og þjóðernisstarfsemi milli landanna.

Á þingi Þjóðræknisfélagsins
í Winnipeg, 23. febr. 1954.

**Bragi Fririksson**
**T. J. Gíslason**
**W. J. Árnason**
**P. M. Pétursson**
**Mrs. S. E. Björnsson**

Formaður nefndarinnar, séra Bragi Friðriksson, lét í ljósi ánægju yfir því, að hafa átt þess kost að sækja ársþing Þjóðræknisfélags Vestur-Íslendinga og taka

þátt í störfum þess. Flutti hann álit nefndar sinnar í 10 liðum og gerði ýtarlega greinargerð fyrir hverjum lið.

Mrs. Backman lagði til og Dr. Beck stunddi að nefndarálitið yrði rætt lið fyrir lið.

1., 2. og 3. liður samþyktir með smávægilegum breytingum.

4. liður samþyktur, en með hliðsjón af honum mæltist Dr. Beck til þess, að stjórnarnefnd grennslaðist eftir því, hvort styrkur Háskóla Íslands, er stóð vestur-íslenzkum námsmönnum til boða, væri enn í gildi.

5. liður samþykktur án breytinga.

6. liður var ræddur allýtarlega. Mrs. S. E. Björnsson rakti sögu þessa máls frá byrjun og las bréf frá skógræktarstjóra Íslands, Hákoni Bjarnasyni. Finnbogi prófessor gerði ýmsar athugasemdir við 6. lið og var skýrslunni vísað aftur til nefndarinnar til frekari athugunar.

**Nokkur orð um Skógræktarmálið**

Greinargerð frú Marju Björnsson

Saga þessa máls er nú stutt, enn sem komið er og því að sjálfsögðu ekki tímafrek, en hún er í stuttu máli þessi. Fyrir þrem árum gerði þjóðræknisþingið samþykt um að veita 5000.00 kr. til þess að byrjun yrði gerð á því að rækta skóg í nafni Vestur-Íslendinga á Íslandi, og yrði helzt til þess valinn blettur á Þingvöllum. Á þinginu, sem þetta var gert, voru undirtektir svo góðar að málið fékk eindregið fylgi, því hér var verið að ræða um að hlúa að gamla landinu, sem ávalt hefir verið og er enn áhugamál fjölda Íslendinga hér vestra. En síðan þetta var hafa tvö ársþing verið haldin í Þjóðræknisfélaginu, og mér er ekki kunnugt um að neitt hafi gerzt í þessu máli frekar. Vil ég því vinsamlega mælast til þess, að þetta mál verði að nýju tekið upp á þessu þingi og ákvarðanir gerðar um framtíðarmöguleika á áframhaldandi styrk héðan að vestan til þess að starf það, sem þegar var hafið á síðastliðnu vori, geti haldið áfram. Ég hefi með höndum bréf frá skógræktarstjóra Íslands, Hákon Bjarnasyni, þar sem hann segir frá aðalfundi Skógræktarfélagsins, sem haldinn var að Laugarvatni 4. og 5. júlí 1953. Var þar skýrt frá gróðursetningu á trjáplöntum í lund Vestur-Íslendinga á Þingvöllum fyrir þær 5000.00 kr., sem sendar voru hingað af stjórn Þjóðræknisfélagsins. Þar var eftirfarandi ályktun gerð:

„Fundurinn vill biðja ykkur að færa Þjóðræknisfélagi Vestur-Íslendinga beztu þakkir fyrir framlag þess til skógræktarlundar á Þingvöllum".

Lundur þessi er neðst í hallanum ofan frá Hrafnagjá, um það bil 1000 metra frá þjóðveginum, á ágætum og skjólgóðum stað. Þar voru nú gróðursettar 3000 plöntur í vor, og til þess fór öll upphæðin, sem send var, en ég skal sjá til þess að meira verði gróðursett í lundinum á vori komanda, hvort sem áframhald verður á tillagi félagsins eða ekki. Við höfum ætlað Vestur-Íslendingum a. m. k. 5 hektara lands og má stækka það, ef þess væri óskað".

Virðist þannig góð byrjun hafin nú þegar á okkar skógrækt, en jafnframt er það augljóst, að áframhaldið útheimtir meiri styrk frá okkur hér og helzt árlega, ef vel á að fara. Er vonandi að þetta þing komist að fullnaðarniðurstöðu um aðgerðir í þessu efni. Skógræktun er nú orðið eitt hið mesta áhugamál þjóðarinnar, og til þess máls er nú varið talsvert miklu fé árlega. Árið 1951 var ríkisstyrkur til allra skógræktarfélaga á landinu 185.000 kr., en árið 1952 nam hann 250000 kr. og á því má sjá, að kostnaður við skógræktunina eykst stórum með hverju ári.

Eitt erfiðasta vandamálið hefir frá fyrstu tíð verið fræöflunin, og hafa ferðalög í því efni verið mjög kostnaðarsöm. Fyrir utan margar ferðir til Norðurlanda hafa Íslendingar verið sendir til Alaska og til Suður-Ameríku til fræöflunar. En með þessu móti hefir fræið fengizt óskemmt og orðið að fullum notum. Skógræktarfélög hafa myndast víðsvegar um landið og árið 1951 voru þau 27 talsins, en árið eftir höfðu þrjú bætzt við töluna og tilheyra þau öll aðalfélaginu, sem nefnist Skógræktarfélag Íslands.

Engum held ég blandist hugur um, að hér er um mikið framfaramál að ræða, sem viðkemur velferð íslenzku þjóðarinar nú og í allri framtíð. Veit ég þess vegna að við erum öll fús til þess að leggja því lið á þann hátt að það verði til gagns og ánægju bæði fyrir okkur sjálf og þá umfram allt fyrir þjóðina heima á Íslandi. Vil ég því mælast til þess, að ráðstafanir verði gerðar á þessu þingi fyrir áframhaldandi þátttöku okkar í skógræktarstarfinu.

Reykjavík, 9. júlí, 1953

**Bréf frá skógræktarstjóra Íslands**

Dr. og Mrs. Sveinn E. Björnsson,
Minniota, Man., Canada.

Kæru hjón,

Aðalfundur Skógræktarfélags Íslands er nú nýlega afstaðinn. Á fundinum var skýrt frá gróðursetningu trjáplantna í lund Vestur-Íslendinga á Þingvöllum fyrir þær kr. 5000, — sem sendar voru hingað af stjórn Þjóðræknisfélagsins. Þar var eftirfarandi ályktun gerð:

„Aðalfundur Skógræktarfélags Íslands, haldinn að Laugarvatni dagana 4. og 5. júlí, 1953, þakkar ykkur hjónunum góð afskipti af skógræktarmálum Íslands.

Fundurinn vill biðja ykkur að færa Þjóðræknisfélagi Vestur-Íslendinga beztu þakkir fyrir framlag þess til skógarlundar að Þingvöllum."

Lundur þessi er neðst í hallinu ofan frá Hrafnagjá, um það bil 1000 metra frá þjóðveginum á ágætum og skjólgóðum stað. Þar voru nú settar 3000 plöntur í vor, og til þess fór öll upphæðin, sem send var, en ég skal sjá til þess, að meira verði gróðursett í lundinn á vori komanda, hvort sem áframhald verður á tillögum félagsins eða ekki. Við höfum ætlað Vestur-Íslendingum a. m. k. 5 hektara lands, og má stækka það, ef þess væri óskað.

Á fundinum í sumar voru margir hinna sömu, sem þið hittuð á Þingvelli 1950, og skila ég hér með kveðjum þeirra.

Með vinsemd og virðingu,

**Hákon Bjarnason**

Fundi frestað til 1.30 e. h.

**Fjórði fundur**

hófst kl. 1.30 e. h. og var samvinnuskýrslan tekin til umræðu á ný. Hafði nefndin endurskoðað 6. lið í ljósi umræðnanna, er orðið höfðu um hann og breytt honum lítillega varðandi nafnagiftuna á skógarlundinum.

Dr. Beck lagði til að liðurinn yrði samþykktur og flutti fagra hvatningarræðu til Vestmanna að veita þessu máli fylgi. Th. Gíslason studdi tillöguna og var hún samþykkt.

7. liður. Séra Eiríkur Brynjólfsson lagði til, að í stað orðsins „gjafaböggull" væri notað orðið „vinagjöf", og með þeirri breytingu var liðurinn samþykktur samkvæmt tillögu Ólafs Hallssonar og Ingibjargar Jónsson.

8. liður. Mrs. B. E. Johnson og Mrs. L. Sveinsson lögðu til að þessi liður yrði samþykktur. Finnbogi prófessor hafði hreyft þessu máli í útvarpsræðu á Íslandi og varð það til þess að þessi unglingabréfaskipti hófust. Var liðurinn samþykktur.

9. liður. Hafði þessi liður (um kvikmyndirnar) verið nokkuð ræddur á stjórnarnefndarfundum og vara-ritari, Finnbogi Guðmundsson verið um all-langt skeið í bréfasambandi við Kjartan O. Bjarnason myndatökumann á Íslandi varðandi þetta mál. Var þessum lið vísað til stjórnarnefndar til frekari framkvæmda samkvæmt tillögu Mrs. S. Backman og séra Braga Friðrikssonar.

10. liður. Th. Gíslason lagði til og Dan Lindal studdi að samþykkja þennan lið og var það gert og nefndarálitið síðan samþykkt í heild.

Forseti skipaði nú þessar þingnefndir:

**Fræðslumálanefnd:**

Hólmfríður Danielson
Guðm. Magnússon
Salome Backman
Harold Ólafsson
Eiríkur Vigfússon.

**Útgáfumálanefnd:**

Philip M. Pétursson
Páll Stefánsson
Friðrik Nordal.

Formaður fræðslumálanefndar spurðist fyrir um, hvort semja ætti nefndarálitið á svipuðum grundvelli og áður; hvort það ætti að fjalla um fræðslu barna og unglinga í íslenzku, þar sem ekkert væri nú gert í þeim málum þrátt fyrir árlegar tillögur fræðslumálanefndar. Var henni bent á að þótt kennsla hefði fallið niður um skeið sumstaðar, væri henni haldið áfram eða byrjuð á öðrum stöðum. Væri nauðsynlegt að gefa góðar bendingar og hvetja til dáða í þessum efnum.

**Skýrsla fjármálanefndar**

Að athuguðum fjárhagsskýrslum frá síðastliðnu ári beinir fjármálanefnd eftirfarandi tillögum til þingsins: —

I. Að fjárhagsskýrslur verði viðteknar óbreyttar.

II. Að því athuguðu hvað starfsfé félagsins er takmarkað og hins vegar að reksturskostnaður af hinum ýmsu störfum félagsins fer stöðugt hækkandi telur fjármálanefnd nauðsyn að:

a) Að hvetja alla, sem tök hafa á, að gjörast styrktarmeðlimir félagsins og að lágmarksgjald þeirra á ári hverju sé $5.00.

b) Að hvetja bæði starfsnefnd Þjóðræknisfélagsins og eigi síður hinar ýmsu deildir þess að viðhalda og auka meðlimatölu eins og því verði framast viðkomið.

Dagsett í Winnipeg, 23. febr. 1954

**Grettir Leo Johannson**
**Ólafur Hallsson**
**Gunnar Sæmundsson**

Gunnar Sæmundsson flutti tillögur nefndarinnar og urðu um 1. og 2. lið allmiklar umræður. Skýrði G. L. Johannson, féhirðir, glöggt frá því hve félaginu væri nauðsynlegt að afla sér starfsfjár til að framkvæma það starf, sem því væri lagt fyrir að gera; gerði hann og grein fyrir því fé, er safnast hafði frá styrktarmeðlimum. Voru þessir liðir síðan samþykktir og svo þriðji liður samkvæmt tillögu Dr. Becks og Mrs. Björnsson.

Tillaga Th. Gíslasonar og Ingibjargar Jónsson að nefndarálitið væri samþykkt í heild var borin upp og samþykkt.

Nú var kaffihlé í 15 mínútur í neðri sal hússins.

Formaður Allsherjarnefndar, Dr. Beck, flutti tillögu þess efnis að senda varagjaldkera, Miss Margréti Pétursson, sem ekki hafði getað setið þingið sökum lasleika, blómvönd með þökkum fyrir unnin störf og ósk um bráðan bata, samþykkt.

Formaður allsherjarnefndar flutti álit þeirrar nefndar um að áskorunin frá Fróns-deildinni um að byggingarmálið skyldi tekið á dagskrá. Mrs. L. Sveinsson lagði til að umræðunum um þetta mál yrði frestað þar til 10.30 að morgni og þeim mönnum, er undirritað hefðu áskorunina tilkynnt þetta, svo þeir geti verið til staðar, ef þeir þess æskja. Ólafur Hallsson studdi tillöguna og var hún samþykkt.

**Álit fræðslumálanefndar**

Nefndin leggur til:

1. Að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins ráði mann eða konu, sem ferðist um meðal deildanna og skipuleggi íslenzkukennslustarfið í samráði við deildirnar.

2. Að kostnaður í sambandi við þetta starf falli jafnt á báða aðila, þ. e. a. s. aðalfélagið og deildirnar.

3. Að í sambandi við íslenzkukennsluna sé sérstök áherzla lögð á æfingu íslenzkra sönglaga.

**Solome Backman**
**Eiríkur Vigfússon**
**H. Ólafsson**
**Guðm. Magnússon**
**Hólmfríður Danielson**

Framsögumaður nefndarinnar sagði í greinargerð sinni, að nefnd sín hefði farið fram á að hún skýrði frá þeim góða árangri, er orðið hefði af fræðslustarfsemi hennar á vegum félagsins árið 1948—'49, en sú skýrsla birtist á sínum tíma í Tímariti félagsins.

Dr. Beck stakk upp á, að nefndarálitið væri rætt lið fyrir lið; séra Eiríkur Brynjólfsson studdi og var það samþykkt.

1. liður. Séra Eiríkur lagði til, að hann væri samþykktur; Mrs. Björnsson studdi tillöguna og var hún samþykkt.

2. liður. Mrs. Björnsson lagði til að hann væri samþykktur, séra Eiríkur studdi; var hann borinn upp og samþykktur umræðulaust.

3. liður var samþykktur samkvæmt tillögu Mrs. Björnsson og séra Eiríks og svo nefndarálitið í heild, samkvæmt tillögu Dr. Becks.

Guðm. Magnússon frá Gimli tók til máls og sagði, að ef til vill mætti vænta þess að prestarnir, sem nýkomnir væru frá Íslandi myndu stuðla að íslenzkukennslu hver í sínu byggðarlagi. Var gerður góður rómur að máli hans.

Fundi slitið kl. 4.30 og var þá strætisvagn til staðar við dyr hússins og fóru fulltrúar suður til Manitobaháskóla í boði próf. Finnboga.

Um kveldið hélt Icelandic Canadian Club fjölsótta samkomu í Fyrstu lútersku kirkju.

**Programme:**

O, CANADA ................Mrs. W. Kristjanson
—at the Piano
1. CHAIRMAN'S REMARKS
2. Selections from "The Yeomen of the Guard" — Students from the Daniel McIntyre Collegiate Institute.
3. Concerto for two Violins and Piano —Vivaldi
Violins: John Graham and —Robert Ryback
Piano: Stuart Neirmeir.
4. ADDRESS —Hon. Byron I. Johnson, M.B.E.
5. VOCAL SOLO ................Gordon Parker
Mah Lindy Lou ............Lily Strickland
Without a Song ....Vincent Youmans
Deep River ....................H. T. Burleigh
Accompanist: Barry Anderson
GOD SAVE THE QUEEN

**Fimmti fundur**

Þjóðræknisfélagsins hófst kl. 10 að morgni 24. febrúar.

Var útgáfumálið fyrst tekið til umræðu og var séra Philip M. Pétursson framsögumaður þess. Flutti hann nefndarálit í átta liðum og var það tekið til umræðu lið fyrir lið, samkvæmt tillögu séra Eiríks Brynjólfssonar.

**Útgáfumálanefndarálit**

Útgáfumálanefndin leggur til:

1. Að þingið votti ritstjóra Tímaritsins, hr. Gísla Jónssyni, þakklæti fyrir ágætt starf á ritstjórn Tímaritsins og góða frammistöðu í öllum málum þess og láti þá von í ljósi, að hann haldi áfram því verki, sem hann hefir hingað til leyst svo vel af hendi.

2. Að þingið votti Mrs. Björgu Einarsson þakklæti sitt fyrir hennar mikla dugnað við auglýsingasöfnun fyrir Tímaritið, og auglýsendum fyrir ágætan stuðning við það.

3. Að þingið þakki Þjóðræknisfélaginu á Íslandi góða samvinnu á undanförnum árum og góðum undirtektum á Tímariti Þjóðræknisfélagsins í Vesturheimi.

4. Að þingið feli væntanlegri stjórnarnefnd að sjá um útgáfu Tímaritsins á komandi ári og ráði ritstjóra.

5. Að þar sem að íslenzku vikublöðin hafa átt stóran þátt í því, að halda íslenzkunni við í þessari heimsálfu, og íslenzkum málum yfirleitt, þá hvetji þingið alla Íslendinga til að styrkja blöðin með því að kaupa og útbreiða þau og að styrkja þau á allan annan hátt, sem tækifæri og kringumstæður leyfa.

6. Að þingið telji viðeigandi að prentun ritsins verði falin íslenzku prentsmiðjunum Viking Printers og Columbia Press sitt árið hvorri, eins og áður var gert um mörg ár.

7. Að þingið feli stjórnarnefndinni að birta í blöðunum af og til í samráði við íslenzku deildina við Manitobaháskóla og próf. Finnboga Guðmundsson, lista yfir nýjar bækur á íslenzku eða um íslenzk efni, sem berast til háskólabókasafnsins eða til bókasafns Þjóðræknisfélagsins, sem er undir umsjón deildarinnar Frón í Winnipeg.

8. Að þar sem að Þjóðræknisfélagið hafði með byrjun á Sögu Íslendinga í Vesturheimi að gera, og sem að síðar var falið nokkrum styrktarmönnum að sjá um, — og sem að er nú undir umsjón Menningarsjóðs á Íslandi, að þá votti þingið ritstjóra hins nýútkomna bindis, hins fimmta, Dr. Tryggva J. Oleson, þakklæti fyrir vel og samvizkusamlega unnið starf við útgáfu þess bindis og hvetji Íslendinga til að kaupa og lesa það bindi og hin sem á undan eru komin.

Á þjóðræknisþingi, 24. febr. 1954,

**Philip M. Pétursson**
**Fred E. Nordal**
**Páll Th. Stefánsson**

1. liður var samþykktur með því að menn risu úr sætum, samkvæmt tillögu séra Philips.

2. liður. Miss Hall og Dan Lindal lögðu til að hann væri samþykktur, og var það gert.

3. liður var samþykktur samkvæmt tillögu séra Eiríks og séra Philips.

4. liður var og samþykktur samkvæmt tillögu Am. Ásgrímssonar og séra Eiríks.

5. liður. Dr. Beck lagði til, en séra Eiríkur studdi, að þessi liður væri samþykktur. Urðu allmiklar umræður um þennan lið, er fjallaði um útbreiðslu íslenzku vikublaðanna og tóku þátt í umræðunum séra Eiríkur Brynjólfsson, Dr. Beck, séra Jóhann Friðriksson, séra Valdimar J. Eylands og Ingibjörg Jónsson. Samkvæmt tillögu séra Philips var umræðum um þennan lið og um útgáfumál frestað þar til eftir hádegi, er fleiri yrðu á fundi, er vildu ræða þetta mikilvæga mál.

Var þá tekið fyrir álit allsherjarnefndar um byggingarmálið.

## Skýrsla allsherjarnefndar um byggingarmálið

1. Allsherjarnefnd leggur til að byggingarmálið sé tekið á dagskrá þingsins.

2. Þar sem málið virðist enn þurfa frekari undirbúning, leggur nefndin til, að milliþinganefnd sé kosin í málið. Ennfremur, þar sem hér er um stórmál að ræða, verði nefndinni sérstaklega falið að afla sér upplýsinga um undirtektir deilda Þjóðræknisfélagsins og Íslendinga almennt vestan hafs um fjárhagslegan stuðning við málið, og að nefndin leiti vinsamlegrar samvinnu íslenzku blaðanna um málið.

**Richard Beck**
**E. S. Brynjólfsson**
**Louise Gíslason**

Reifaði Jón Ásgeirsson málið og lagði áherzlu á nauðsyn byggingar allsherjar samkomuhúss fyrir Íslendinga, er reist væri í Winnipeg.

Fyrstur tók til máls Paul Bardal. Kvaðst hann hafa mælt með því á þjóðræknisþingi fyrir allmörgum árum, að reist yrði samkomuhús hér í borginni í minningu um þá menn af íslenzkum stofni, er féllu í heimsstyrjöldunum tveim, en nú kvaðst hann vera þeirrar skoðunar, að ekki væri ráðlegt að ráðast í þetta eins og nú stæði á. Mætti e. t. v. á einhvern annan hátt reisa minnismerki um þessa menn. Hins vegar vildi hann ekki að lögð væri til síðu hugmyndin um samkomuhúsið; kæmi hún e. t. v. til framkvæmda seinna.

Mrs. Danielson taldi Íslendingum í Winnipeg mikla nauðsyn á samkomuhúsi nú þegar. Það væri ekkert launungarmál, að söfnuðunum væri þröngvað til að lána kirkjur sínar til samkomu- og fundarhalda. Eins og nú væri komið yrðu félögin að hrekjast úr einum stað í annan.

Séra Eiríkur mælti og með slíkri byggingu í minningu um látna hermenn og minntist í því sambandi á hina fyrirhuguðu byggingu í Vancouver.

W. J. Lindal dómari tók mjög í sama streng og Paul Bardal og sagði, að menn yrðu að horfast í augu við raunveruleikann í þessum efnum og gerði tillögu um, að fresta málinu þar til ástæður væru betri til að koma því í framkvæmd.

Mrs. Björg Ísfeld kvaðst vera því mjög fylgjandi, að reist yrði samkomuhús ekki einungis í minningu um hermennina heldur og í minningu íslenzkra frumherja. Sagði hún að konur væru e. t. v. hugsjónaríkari en karlar, en hugsjónir yrðu þó að vera undanfari framkvæmdanna. Karlmönnum yrði e. t. v. of starsýnt á það, sem þeim fyndist raunveruleiki. Kvað hún oft hafa verið þörf, en nú væri nauðsyn að fá samkomuhús sem fyrst, ef íslenzkur félagsskapur ætti að halda áfram að blómgast. Hvatti hún Þjóðræknisfélagið til að finna mann eða menn, er ættu hugsjónir og hugrekki til að beita sér fyrir þessu máli.

Lindal dómari kvaðst viljugur að draga tillögu sína til baka til að hindra ekki framkvæmdir, ef slíkur maður eða menn skyldu finnast.

Séra Bragi Friðriksson kvað ráðlegt að leita skoðana æskunnar um þetta mál, því

„ef æskan vill rétta þér örfandi hönd, þá ertu á framfaravegi“.

Séra Jóhann Friðriksson minntist þess, hve vel fjársöfnun fyrir háskólastólinn hefði gengið og þætti sér gaman að leggja þetta mál fyrir byggðarfólk sitt og sjá, hvernig það tæki í það.

Dr. Beck sagði, að sú hugmynd væri innifalin í tillögunni og kvaðst vænta þess, að karlmenn hefðu þegið svo mikið af hugsjónaauði frá mæðrum sínum og konum, að þeir gætu komið stórmálum sem þessum í framkvæmd.

Tillagan var samþykkt.

Séra Eiríkur stakk upp á að sjö manna nefnd yrði kosin og var ákveðið að afgreiða þá tillögu eftir hádegi.

Þá var tekin fyrir önnur skýrsla allsherjarnefndar.

**Framhaldsskýrsla allsherjarnefndar**

1. Með hugheilli þökk fyrir ógleymanlegar heimsóknir dr. Sigurgeirs Sigurðssonar biskups og hið mikla starf hans í þágu Vestur-Íslendinga og sambandsins milli þeirra og heimalandsins, sendir þjóðræknisþingið ekkju hans frú Guðrúnu Pétursdóttur og öðrum ættmennum innilegar samúðarkveðjur og biður þeim blessunar.

2. Minnugt hins langa og mikilvæga starfs Ásmundar P. Jóhannssonar í þágu vestur-íslenzkra þjóðræknismála, og sérstaklega Þjóðræknisfélaginu til eflingar, vottar þjóðræknisþingið ekkju hans, frú Guðrúnu Jóhannsson, sonum hans og öðru skylduliði, djúpa samúð og biður þeim velfarnaðar.

3. Með þakklátum huga minnist þjóðræknisþingið dyggilegs starfs séra Egils H. Fáfnis, varaforseta Þjóðræknisfélagsins, í þágu þjóðræknismálanna, kirkju og kristni vor á meðal, og vottar ekkju hans, frú Ellen Fáfnis, og sonum þeirra, hugheila samúð og sendir þeim hlýjar kveðjur.

4. (Kveðja til Ásmundar Guðmundssonar, biskups Íslands):

Þjóðræknisþing Íslendinga í Vesturheimi sendir þér hugheilustu kveðjur og óskar þér ríkulegrar blessunar í biskupsstarfi þínu.

5. (Kveðja til Jóns J. Bíldfell):

Þjóðræknisþingið þakkar margþætt störf þín í félagsins þágu og árnar ykkur hjónum blessunar.

6. Þjóðræknisþingið samfangnar forseta Þjóðræknisfélagsins, dr. Valdimar J. Eylands með þann maklega heiður, sem honum féll í skaut, er United College í Winnipeg sæmdi hann nýlega heiðursdoktorsnafnbót í guðfræði og biður honum blessunar í störfum hans.

7. (Samúðarkveðja til ekkju Friðriks Kristjánssonar).

8. Þjóðræknisþingið þakkar hinum virðulega gesti, Han. Byron Ingimar Johnson, fyrrv. forsætisráðherra British Columbia, komu hans og ræðuhöld, sem aukið hafa hróður Íslendinga og því um leið verið ágætt þjóðræknisstarf. Ennfremur vottar þingið honum virðingu sína og sendir honum heillaóskir.

9. Þjóðræknisþingið þakkar Sögunefndinni, undir formennsku Guðmundar F. Jónassonar forstjóra, ágætt starf. Jafnframt felur þingið stjórnarnefndinni að ráðstafa því sem eftir er af óseldum eldri bindum sögunnar.

10. Þjóðræknisþingið vottar frú Guðmundu Elíasdóttur innilega þökk fyrir heimsókn hennar og ágætar söngsamkomur hennar á vegum félagsins.

11. Þjóðræknisþingið færir þeim Mr. Hal Linker og Mr. A. K. Gee forstjóra hugheilustu þakkir fyrir sýningu hinnar prýðilegu Íslandsmyndar, „Sunny Iceland“, og vottar Mr. Linker sérstaka þökk fyrir það mikilvæga landkynningarstarf, er hann vinnur með sýningu Íslandsmyndar sinnar víðsvegar.

12. Allsherjarnefnd leggur til, að þar sem Miss Margrét Pétursson varagjaldkeri getur ekki setið þing sökum lasleika, þá votti þingið henni virðingu sína og þökk fyrir unnin störf með því að senda henni blómvönd, ásamt óskum félagsins um góðan bata.

**Richard Beck**
**Mrs. Lovísa Gíslason**
**E. S. Brynjólfsson**

Fyrsti liður samþykktur með með því að menn risu úr sætum, sömuleiðis annar og þriðji liður. Fjórði, fimmti og sjötti liðir voru og samþykktir í einu hljóði.

Forseti kunngerði þingheimi um andlát Friðriks Kristjánssonar þá um morguninn; hefði hann verið ágætur meðlimur félagsins frá fyrstu tíð, og mæltist forseti til þess að ekkju hans væri vottuð samúð á tilhlýðilegan hátt.

Tillaga dr. Becks, studd af séra Jóhanni Friðrikssyni, að forseta og skrifara væri falið að senda Mrs. Kristjánsson samúðarkveðju frá þinginu var samþykkt í einu hljóði.

W. J. Lindal skýrði frá því hve mikla ánægju Byron Johnson, fyrrv. forsætisráðherra í British Columbia, hefði haft af heimsókn sinni til Winnipeg og kynnum sínum af Íslendingum hér; hefði hann sagt, að hann yrði sterkari Íslendingur eftir þessa heimsókn.

Tillaga dr. Becks, studd af mörgum, að þingið sendi Mr. Johnson kveðjuskeyti ásamt þökk fyrir komuna, samþykkt.

Grettir L. Johannson þakkaði fyrir hönd stjúpmóður sinnar og bræðra fyrir samúðarkveðjurnar vegna fráfalls föður hans, Ásmundar P. Jóhannssonar, ennfremur þakkaði hann fyrir blómsveig, er félagið sendi til útfararinnar. — Fundi slitið.

**Sjötti fundur**

þjóðræknisþingsins hófst kl. 1.30 eftir hádegi á miðvikudaginn.

Mrs. Rósa Jóhannsson gerði tillögu um að í stað þess að senda ekkju Friðriks Kristjánssonar bréf yrði sendur blómsveigur til útfararinnar. Var tillagan studd af mörgum og samþykkt.

Þá var útgáfumálið tekið til umræðu á ný. Var fimmti liður ræddur nokkuð. Var ritstjóri Lögbergs á þingi og bauð forseti honum að taka til máls. Sagði Einar Páll Jónsson að nákvæmlega sama tillaga hefði verið samþykkt af þinginu í fyrra, og hefði hann ekki orðið þess var að hún hefði borið árangur. Hins vegar væri ekkert á móti því að samþykkja tillöguna á ný og var það gert.

6. liður var mikið ræddur og mælti séra Philip M. Pétursson mikið með því, að hann yrði samþykktur. Sagði hann að Columbia Press hefði fengið prentun ritsins í fyrra þrátt fyrir það þótt tilboð Viking Printers hefði verið lægra — 15 cents á síðuna. Sagði hann ennfremur, að Viking Printers hefði ekki vandað tilboð sitt í ár, því þeir hefðu þótzt vita, að þeir fengju ekki prentun ritsins hvort sem væri.

Guðmann Levy fjármálaritari félagsins sagði, að Viking Printers hefði ekki verið veitt ritið í fyrra vegna þess að tilboði þeirra hefði fylgt skilyrði um að þeir hækkuðu prentverðið, ef pappír hækkaði í verði, en það ár hefi pappírsverð farið síhækkandi; hefði því nefndinni fundist ráðlegra að taka tilboði Columbia Press, þótt það hefði verið ofurlítið hærra.

Grettir L. Johannson, féhirðir félagsins, sagði það rétt vera að félagið hefði gert samning við prentsmiðjurnar fyrir nokkrum árum um að þær fengju ritið til skiptis, en eftir að útgáfunefnd Heimskringlu hefði selt prentsmiðjuna væri sá samningur vitanlega úr gildi. Sagði hann, að það væri fyrst og fremst skylda framkvæmdarnefndarinnar að vernda hag félagsins og Tímaritsins en ekki prentsmiðjanna. Sagði hann, að Viking Printers hefði ekki verið veitt Tímaritið í fyrra vegna þess, að tilboð þeirra hefði verið skilyrðisbundið — ekki hreint og beint. En í ár hefði tilboð þeirra verið miklu hærra en tilboð Columbia Press og hefði því ekki komið til mála að veita Viking Printers ritið.

Nú var umræðunum frestað á ný, því klukkan var orðin tvö, lögboðinn kosningatími embættismanna félagsins. Hlutu þessir kosningu:

Dr. V. J. Eylands, forseti
Séra Philip M. Pétursson, varaforseti
Mrs. E. P. Jónsson, ritari
Próf. Finnbogi Guðmundsson, v.-ritari
Grettir L. Johannson, gjaldkeri
Thor Viking, varagjaldkeri
Guðmann Levy, fjármálaritari
Ólafur Hallsson, varafjármálaritari
Ragnar Stefánsson, skjalvörður.

Yfirskoðunnarmenn voru endurkosnir, þeir Steindór Jakobsson og Jóhann Th. Beck.

Þá var kosin sjö manna milliþinganefnd í byggingarmálið og eru þessi í henni:

Mrs. Björg Ísfeld
Jón Ásgeirsson
Próf. Tryggvi J. Oleson
Jochum Ásgeirsson
Séra Bragi Friðriksson
Lúðvík Kristjánsson
Erlingur Eggertson.

Aftur var útgáfumálið tekið til umræðu, og gerði Grettir L. Johannson þessa breytingartillögu við 6. lið nefndarálitsins; að stjórnarnefndinni sé falið að sjá um prentun Tímaritsins eins og að undanförnu. Var breytingartillagan studd af mörgum og samþykkt.

7. og 8. liðir voru og samþykktir og svo nefndarálitið í heild með áorðnum breytingum.

Forseti skipaði milliþinganefnd í skógræktarmálið og eiga þessir sæti í henni:

Dr. Richard Beck
Mrs. Marja Björnsson
Próf. Finnbogi Guðmundsson.

**Álit laganefndar**

W. J. Lindal las skýrslu laganefndar og lagði til að hún væri rædd lið fyrir lið og var það samþykkt.

Laganefnd leggur til að kosin sé þriggja manna milliþinganefnd, skipuð einum löglærðum manni, er taki lög félagsins til endurskoðunar með hliðsjón af þeim tillögum og umræðum, er fram hafi komið á þinginu:

1. Að athuga á hvern hátt sé hægt eða æskilegt að koma því fyrir að fjarlægar byggðir geti myndað sameiginlegar nefndir eða sambönd, sem hafi vald til að flytja mál þeirra og fá neytt atkvæðisréttar á ársþingum Þjóðræknisfélagsins.

2. Að 21. grein um rétt deilda til að njóta atkvæðisréttar skuli verða breytt á þann hátt, að hún verði í samræmi við þá atkvæðagreiðslu-aðferð, sem Þjóðræknisfélagið álítur bezt viðeigandi og að fjarlægar deildir fái tækifæri, án mikilla fjárútláta, til að neyta atkvæðisréttar síns og taka þátt í umræðum á þingum.

3. Að nefndin athugi möguleikana á því að vara-embættismönnum, sem búa í tiltekinni fjarlægð frá Winnipeg sé heimilað, ef þeir óska þess, að veita einhverjum

meðlimum Þjóðræknisfélagsins í Winnipeg skriflegt umboð til þess að sitja á stjórnarnefndarfundum í þeirra stað, þegar eitthvað sérstakt er á dagskrá stjórnarnefndarinnar.

**W. J. Lindal**
**E. S. Brynjólfsson**
**D. J. Lindal**

1. liður samþykktur samkvæmt tillögu Dr. Becks og Ingibjargar Jónsson.

2. liður samþykktur samkvæmt tillögu W. J. Lindals og Dr. Becks.

3. liður samþykktur samkvæmt tillögu séra Eiríks Brynjólfssonar, og var síðan nefndarálitið samþykkt í heild.

Forseti skipaði eftirgreinda menn í milliþinganefnd til að endurskoða lög félagsins:

W. J. Lindal, dómara
G. L. Johannson, ræðismann
Próf. Finnboga Guðmundsson.

Dr. Beck las nú framhaldsskýrslu allsherjarnefndar.

9. liður. Ingibjörg Jónsson lagði til, en Jón Ásgeirsson studdi, að 9. liður yrði samþykktur og var hann borinn upp og samþykktur.

10. liður var samþykktur með almennu lófaklappi.

11. liður. Samkvæmt tillögu Ólafs Hallssonar, er studd var af mörgum, var þessi liður samþykktur.

12. liður hlaut einróma samþykki.

Dr. Beck skýrði frá hinum frábærlega góðu ritdómum, sem bók frú Thorstínu Jackson Walters hefir nú fengið víða hjá hinum beztu gagnrýnendum stórblaða og tímarita; sagði hann það ganga kraftaverki næst, að frú Thorstína hefði getað afkastað þessu mikla verki, þrátt fyrir sjúkdómsbaráttu hennar. Hvatti hann þingmenn til að kaupa þessa ágætu bók.

Stjórnarnefndinni var falið at athuga öll þau mál, er kynnu að hafa gleymzt eða verið vanrækt af þinginu og var síðan fundi frestað þar til í lok samkomunnar um kvöldið.

Samkoma Þjóðræknisfélagsins var haldin fyrir troðfullu húsi í Sambandskirkjunni.

SKEMMTISKRÁ:

O, CANADA
Samkoman sett
Framsögn kvæða. Þrjár ungar stúlkur frá Nýja-Íslandi: Judy Vopnfjörð, Rosalind Pálsson og Jóna Pálsson.
Viðureignin við íslenzkuna,
—Séra Robert Jack
Ný íslenzk sönglög á hljómplötum
Sjómannalíf á Suðurnesjum
—Séra Eiríkur S. Brynjólfsson
Útnefning heiðursfélaga
ELDGAMLA ÍSAFOLD
GOD SAVE THE QUEEN

Að þessari ágætu skemmtun lokinni var tekið til þingstarfa á ný. Venju samkvæmt útnefndi skrifari félagsins heiðursfélaga, sem í þetta sinn voru Dr. Stefán Einarsson og séra Einar Sturlaugsson prófastur á Patreksfirði. Mælti Dr. Richard Beck með útnefningu hins fyrrnefnda, en próf. Finnbogi Guðmundsson með útnefningu séra Einars; voru þeir kjörnir í einu hljóði. Síðan lýsti forseti, Dr. Valdimar J. Eylands þessu þrítugasta og fimmta ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi slitið.

VALDIMAR J. EYLANDS, forseti
INGIBJÖRG JÓNSSON, ritari

3. DEILDIR

**Deildin „Iðunn"**
**Leslie, Sask.**

R. Árnason
Mrs. B. Axfjörð
John Jóhannsson
Páll Guðmundsson
Th. Guðmundsson
J. Ólafsson
Jóel Sigurðsson
Sigurður Sigurðsson
G. Stefánsson

**Deildin Báran**
**Mountain, N. Dak.**

**Heiðursmeðlimir**

Dr. og Mrs. Richard Beck
Hon. Guðmundur Grímsson
H. T. Hjaltalín
Rev. Theodór Sigurðsson
Jóhannes Anderson

**Embættismenn**

G. J. Jónasson, forseti
H. B. Grímsson, skrifari
H. Ólafsson, féhirðir
P. B. Ólafsson, fjármálaritari

**Meðlimir**

A. M. Ásgrímsson
Magnús Ásmundsson
John H. Axdal
Albert Bjarnason
Herman Bjarnason
B. T. Björnsson
Hannes Björnsson
Matt. Björnsson
M. F. Björnsson
S. A. Björnsson
V. A. Björnsson
Mike Byron
Fríða Eggerts
Einar Einarsson
F. M. Einarsson
Jón Einarsson
J. J. Erlendson
Mrs. E. H. Fáfnis
Helgi Finnsson
Jóhann Gestson
D. Guðbjartsson
Kristín Gudman
C. J. Guðmundsson
Erling Guðmundsson
H. G. Guðmundsson
Kristján Guðmundsson
Sigmundur Guðmundsson
Thorsteinn Guðmundsson
V. G. Guðmundsson
Frank Hall
J. G. Hall
H. T. Hannesson
John A. Hansson
Kenneth D. Indriðason
A. J. Jóhannsson
Fred G. Johnson
Mrs. Garðar Johnson
John H. Johnson
Óli G. Johnson
Óli Johnson
H. M. Jónasson
Krist. Kristjánsson
Kristbjörg Kristjánsson
S. S. Kristjánsson

Helgi Laxdal
Leo Laxdal
A. G. Magnússon
W. N. Magnússon
Alvin Melsted
Hannes Melsted
Leo Melsted
W. Melsted
Einar J. Mýrdal
Steini Mýrdal
J. K. Ólafsson
Helgi Reykdal
B. S. Sigfússon
F. S. Snowfield
Oddur Sveinsson
Aðalsteinn Thomasson
John Thorarinsson
Steve Thordarson
G. Thorleifsson
Ted Vatnsdal
H. S. Walter

**Sambandsdeildin „Ströndin", Vancouver, B.C.**

**Embættismenn**

S. Eymundsson, forseti
B. E. Kolbeins, varaforseti
G. Stefánsson, skrifari
Séra E. S. Brynjólfsson, varaskrifari
C. H. Ísfjörð, féhirðir og auglýsingastjóri
S. V. Gillis, varaféhirðir

**Samvinnunefnd**

Séra E. S. Brynjólfsson, formaður
B. E. Kolbeins
S. Johnson

**Meðlimir**

Óli Anderson
S. Árnason
Mrs. S. Árnason
Th. Bergman
Mrs. Á Björnsson
Séra E. S. Brynjólfsson
Frú E. S. Brynjólfsson
Sig. Brynjólfsson
Mrs. Sig. Brynjólfsson
Mrs. Inga Egilsson
Elías Elíasson
E. E. Einarsson
S. Eymundsson
Mrs. S. Eymundsson
Mrs. Matta Frederickson
Dr. E. J. Friðleifsson
Mrs. E. H. Hall
H. J. Halldórsson
Mrs. Anna Harvey
Mrs. C. Helgason
G. Hólm
Mrs. G. Hólm
B. O. Howardson
Mrs. B. O. Howardson
C. H. Ísfjörð
Mrs. C. H. Ísfjörð
G. Jacobson
Mrs. G. Jacobson
B. E. Kolbeins
Mrs. B. E. Kolbeins
F. O. Lyngdal
Mrs. F. O. Lyngdal
Mrs. K. Matthíasson
Mrs. A. C. Orr
Ófeigur Sigurðsson
S. Sölvason
G. Stefánsson
Mrs. G. Stefánsson
Jóhann Sigmundsson
B. Thorlacius
L. H. Thorláksson
O. B. Thornton
E. Vatnsdal

**Þjóðræknisdeildin Ísland, Morden, Man.**

Stefán G. Einarson
Árni Gillis, Jr.
Árni R. Gillis
Oscar Gillis
Ragnar Gillis
Lárus Gíslason
J. M. Gíslason
T. J. Gíslason
Mrs. T. J. Gíslason
Leonard Helgason
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Óli Líndal
Mrs. Fríða Líndal
Mrs. Willie Ólafson
Jóhann P. Thomasson
Jonathan Thomasson
Thomas Thomasson

**Stjórnarnefnd Deildarinnar „Frón“ 1955 Winnipeg, Man.**

Jón Jónsson, forseti
735 Home St.
Heimir Thorgrímsson, vara-forseti
627 Agnes St.
Thor Viking, skrifari
515 Simcoe St.
Ingi Sveinsson, vara-skrifari
471 Home St.
Jochum Ásgeirsson, gjaldkeri
126 Lodge Ave.
Valdimar Lárusson, vara-gjaldkeri,
244 Lipton St.
Gestur Davíðsson, fjármálaritari
Ste 1 Diana Apts.
Einar Sigurðsson, vara-fjármálaritari
585 Home St.

**Ævifélagar**

Grettir L. Johannson, ræðismaður
Walter Johannson
Séra Philip M. Pétursson
Grettir Eggertson
Frú Anna Margrét Levy
Guðmann Levy
Eric Ísfeld
Mrs. B. E. Johnson

**Meðlimaskrá Fróns 1954**

Hannes Anderson
Ingólfur Anderson
Sigurður Anderson
Kristín Árnason
Sigríður Árnason
Sigurlaug Árnason
Ingibjörg Ásgeirsson
Jochum Ásgeirsson
Jón Ásgeirsson
Oddný Ásgeirsson
Jón Ásmundsson
Salome Backman
Sigurbjörg Bárðarson
Jóhann Th. Beck
V. Beck
Jón Benediktsson
Soffía Benjamínsson
Rafnkell Bergsson
Ólafur Bjarnason, Seattle, Wash.
P. K. Bjarnason
Andrés Björnsson
B. E. Björnsson
Davíð Björnsson
Heiðmar Björnsson
Marja Björnsson
Rósa Björnsson
Dr. S. E. Björnsson
Shirly G. Block
Svava Bonnel
Guðrún Brandson
Oddur Brandson
Gunnar Brynjólfsson
Ingibjörg Butler
Jóhannes Christie
Friðmunda Christie
Jón Christopherson
Séra. Sig. Christopherson

H. F. Danielson
Hólmfríður Danielson
Fríða Davíðsson
Gestur Davíðsson
Ragnheiður Davíðsson
Ólína Dunning
Arni G. Eggertson, Q.C.
Maja Eggertson
C. O. Einarsson
Jens Elíasson
Gunnar Erlendsson
Stefanía Eydal
Dr. Valdimar J. Eylands
S. V. Eyford
Anna Eyjólfsson
Kristinn Eyjólfsson
Þórdís Fisher
Lára Freeman
Victor Freeman
Fred Friðfinnsson
Ása Friðriksson
Mrs. J. E. Galbraith
Inga Gilles
J. S. Gilles
Elma Gíslason
Halldór Gíslason
Hallbera Gíslason
Hjálmar Gíslason
Jónbjörn Gíslason
Ragnar Gíslason
Þorsteinn Goodman
Ari Guðmundsson
Ingibjörg Guðmundsson
Júlía Guðmundsson
Kár Guðmundsson
Margrét Guðmundsson
Próf. F. Guðmundsson
Þorvaldur Guðmundsson
Þorsteinn Guðmundsson
Matthildur Gunnlaugsson
Sigríður Gunnlaugsson
Ragnhildur Guttormsson
Guðrún Hafliðason
Jón Hafliðason
Ella Hall
Anna Halldórsson
Jón Halldórsson
T. H. Hallgrímsson
B. Hallson
Páll Hallson
Thor Otto Hallson
Th. Hannesson
Fanney Helgason
L. Helgason
Rósa Hjartarson
Lúðvík Hólm
Ólafía Ísberg
Björg Ísfeld
Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Fred Jóel
Guðmundur Jóhannesson
Cristene Jóhannson
Jón Jóhannsson
K. W. Jóhannsson
Rósa Jóhannsson
S. Jóhannsson
Jónas Jónasson
Jón Jónatansson
Finnur Johnson
Gunnlaugur Johnson
Guðríður Johnson
Helgi Johnson
Jón B. Johnson
Ólína Johnson
Pétur N. Johnson
Þórdís Johnson
Þorlákur Johnson
Thomas G. Johnson
Veiga Johnson
Mrs. Bertha Jones
Ásmundur Jónsson, Reykjavík, Ísland
Dr. Björn Jónsson
Ingibjörg Jónsson
Jón Jónsson
Jóna Jörundson
Margrét Josephson
Hallgerður Kristjánsson
J. F. Kristjánsson
Lúðvík Kristjánsson
S. Kjartansson
Steina Kristjánsson
W. Kristjánsson
H. V. Lárusson
S. M. Lárusson
J. J. Líndal
Þóra Una Líndal
Walter Líndal, dómari
Próf. Áskell Löve
Ari G. Magnússon
Jóhann Magnússon
Magnús Magnússon
Bragi Melar
Þorsteinn Mýrmann
Jakobína Nordal
K. Normann
G. Oddleifsson
Sesilía Oddson
Sveinn Oddson
Valgarður Oddson
Benidikt Ólafsson
Kristín Ólafsson
Jón Ólafsson

Óli Ólafsson
Próf. Tryggvi J. Oleson
Crist. Oliver
Mrs. Christ. Oliver
Jónína Olson
Snorri Olson
Pálmi Pálmason
P. S. Pálsson
Mrs. P. S. Pálsson
A. G. Paulson
Stefanía Paulson
G. E. Pétursson
Hannes Pétursson
Hannes J. Pétursson
Hólmfríður Pétursson
Margrét Pétursson
Ólafur Pétursson
Petrína Pétursson
Pétur J. Pétursson
Þorvaldur Pétursson
Þórey Pétursson
P. S. Pétursson
Art Reykdal
Mínerva Sædal
Jóhann Sigmundsson
Björn Sigurbjörnsson
Helga Sigurbjörnsson
Einar Sigurðsson
Guðbjörg Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Jódís Sigurðsson
María Sigurðsson
Rannveig Sigurðsson
Regina Sigurðsson
Sigurþór Sigurðsson
Sigurbjörn Sigurðsson
Mrs. J. B. Skaptason
Hreiðar Skaftfeld
Guðmundur A. Stefánsson
Ragnar Stefánsson
Hans M. Sveinsson
Björgólfur Sveinsson
Mrs. G. Sveinsson
Ingi Sveinsson
Kristín Sveinsson
Halldór M. Swan
Margrét Thorbergsson
Thorbergur Thorbergsson
Bára Þórðarson
Þorgerður Þórðarson
Reynir Þórðarson
Geir Thorgeirson
Heimir Thorgrímsson
Laufey Thorgrímsson
Mrs. Sigrún Thorgrímsson
Soffanías Thorkelsson
Carl H. Thorláksson
Valdheiður Thorláksson
E. Thorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Thor Thorsteinsson
Emma Thorvaldson
Jónas Þorvarðarson
Ólöf Viking
Thor Viking

**Deildin „Snæfell", Churchbridge, Sask.**

Jón Freysteinsson
G. F. Gíslason
Mrs. Gróa Gunnarsson
Sveinbjörn Gunnarsson
Mrs. B. E. Hinriksson
Halldór B. Johnson
Martin Johnson
Gísli J. Markússon
Th. Marvin
Þorleifur Valberg

**Deildin „Lundar“**
**Lundar, Man.**

Margrét Björnsson
Anna Byron
Kári Byron
Ágúst Eyjólfsson
Guðrún Eyjólfsson
Séra Bragi Friðriksson
Frú Katrín Friðriksson
Kristín Goodman
Tómas Guðmundsson
Guðrún Hallson
Ólafur Hallson
Stefán Hofteig
Margrét Johnson
Páll Johnson
Sigrún Johnson
Ásgeir Jörundsson
Daniel Líndal
Jón Líndal
Margrét Líndal
Ragnheiður Magnússon
Jensína McKenzie
Bóas Ólafsson
Dr. Guðmundur Paulson
Kristín Pálsson
Ingibjörg Rafnkelson
Valdi Rafnkelson
Eiríkur Scheving
Guðrún Sigfússon
Skúli Sigfússon
Ásta Sigurdson
Ljótunn Sveinsson
Anna Thorgilson
Jón Thorgilson
Torfi Torfason
Verma Zabrodny

**Deildin „Fjallkonan“**
**Wynyard, Sask.**

Gísli Benediktson
Sigga Björnson
Mrs. Halldóra Gíslason
Guðmundur Grímsson
Finnbogi Guðmundsson
Gunnar Jóhannsson
Finnbogi Johnson
Valdi Johnson
Axel Jónasson
Magnús Jónasson
D. D. Magnússon
Pétur Þorsteinsson

**Deildin „Brúin“,**
**Selkirk, Man.**

**Embættismenn:**
Einar Magnússon, forseti
Helgi Thordarson, vara-forseti
Allie Goodbrandson, skrifari
Ásta Swanson, vara-skrifari
Friðrik Nordal, féhirðir
Margaret Goodman, vara-féhirðir
Eiríkur Vigfússon, fjármálaritari
Thora Austman, vara-fjármálaritari
Ásta Swanson, bókavörður
Yfirskoðunarmenn:
Ásta Erickson
Eiríkur Vigfússon

**Heiðursmeðlimir**

Bjarni Árnason
Kristín K. Ólafsson
Oddur Sveinsson
Jón Sigurðsson

**Meðlimir**

Katie Anderson
Jón Árnason
Márus Benson
Jóhanna Goodman
Jón Goodman
Kristinn Goodman
Ingveldur Henry
Jón Hinriksson
Joe Húnfjörð
Guðrún Ísfeld
Gestur Jóhannsson
Thórunn Jóhannsson
Dr. E. Johnson
Mrs. Gus Johnson
Júlíana Johnson
Sigurbjörg Johnson
Vigdís Johnson
Freida Lyons
Óli Magnússon
Rakel Maxson
Sigrún Nordal
Séra Sigurður Ólafsson
Ingibjörg Pálsson
Jóhann Pétursson
Bjarni Skagfjord
Jofeta Skagfjord
S. K. Stefánsson
Gústi Sæmundsson
W. P. Thorsteinsson
Guðrún Vigfússon

**Deildin „Grund“**
**Glenboro, Man.**

Mrs. P. A. Anderson
Gísli Björnsson
H. Helgason
Hermann Ísfeld
Ingi Jóhannesson
Mrs. B. K. Johnson
Th. A. Ísleifsson
B. S. Johnson
G. S. Johnson
H. S. Johnson
S. S. Johnson
Stefán Jónsson
Tryggvi Johnson
Margaret Josephson
Conrad Nordman
Mrs. Halldóra Pétursson
Finna Sveinsson
J. A. Sveinsson

**Deildin „Esjan“**
**Árborg, Man.**

Björn Anderson
Björn Árnason
Halldór Austman
Björn Bjarnason
G. B. Bjarnason
T. Böðvarsson
Guðrún Borgfjörð
Mrs. Jódís Brandsson
G. O. Einarsson
Sigurður Einarsson
Herdís Eiríksson
Sigurlaug Eyjólfsson
Villi Eyjólfsson
Kr. N. S. Friðfinnsson
Ingibjörg Gíslason
Magnús Gíslason
Þórarinn Gíslason
Jón Gunnarsson

Elli Guðmundsson
Séra Robert Jack
Helgi Jakobsson
Mrs. Una G. Jakobsson
Mrs. Kristveig Jóhanness.
Eyrikka Johnson
Mrs. Þorbjörg Jónasson
Ari Jónsson
B. J. Lifman
S. O. Oddleifsson
Jón Pálsson
Þorgrímur Pálsson
Franklin Pétursson
Sigurjón Þórðarson
Gunnar Sæmundsson
Mrs. G. Sæmundsson
A. S. Sigurðsson
F. P. Sigurðsson
Bjarni Sigvaldason
Guðni Sigvaldason
Mrs. G. Sigvaldason
Lára Sigvaldason
S. I. Sigvaldason
Sig. Sigvaldson
Sigurður Sigvaldason
Valdimar Sigvaldason
Jón Skagfjörð
Jónas G. Skúlason
Páll Stefánsson
Mrs. Svanbjörg Sveinsson
Bergur Vigfússon
Emilía Vigfússon
Þórunn Vigfússon

**Þjóðræknisdeildin „Gimli"**
**Gimli, Man., 1953**

Mrs. Kristín Thorsteinson, forseti
Mrs. H. G. Sigurdson, vara-forseti
Ingólfur N. Bjarnason, skrifari
Mrs. I. N. Bjarnason, vara-skrifari
W. J. Árnason, gjaldkeri frá 20. júní, 1952
Mrs. W. J. Árnason, vara-féhirðir
Hjálmur V. Thorsteinson, fjármálaritari
Sigurjón Jóhannsson, vara-fjármálaritari
Mrs. Guðrún Stevens, skjalavörður

Meðlimir:

Guðjón Árnason
Miss Karen Árnason
Miss Helga Árnason
Helgi Benediktsson
Sigurður Baldvinsson
Miss Sæunn Bjarnason
Mrs. Harold Bjarnason
Mr. T. O. Björnsson
Óli Bjarnason
Mrs. Joe Bjarnason
Sveinn Björnsson
Friðfinnur Einarsson
Einar A. Einarsson
Einar S. Einarsson
Mrs. Ingi Einarsson
Guðmundur Fjelsted
Sveinn Geirhólm
Mrs. Guðný Geirhólm
Mrs. Sigrún Gíslason
Mrs. Adolf Hólm,
Miss Sigríður Hjartarson
Mrs. Margaret Hannesson
Miss Magnúsína Halldórsson
Mrs. J. J. Johnson
Paul Johnson
Mrs. Júlíana Johnson
Kristinn C. Johnson
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Mrs. Albina Johnson
Oli Josephson
Mrs. Anna M. Jónasson
Mrs. J. Jacobson
Ted Kristjánsson
Mrs. Elín Kristjánsson
Mrs. T. H. Kardal
Ólafur N. Kardal
Mrs. O. N. Kardal
Oli Markússon
G. B. Magnússon
M. S. Magnússon
Jón Magnússon
G. E. Narfason
Lárus B. Nordal
Guðm. Peterson
Mrs. Sam Peterson
Mrs. Baldur Peterson
Dóri Peterson
Miss Sigurbjörg Stefánsson
Eric Stefánsson
Valdimar Stefánsson
Mrs. L. Stevens
Mrs. John Stevens
Mrs. Margaret Sigurðsson
Miss Guðrún Sigurðsson
Mrs. H. Sigurðsson
Björn Sigurðsson
Séra H. S. Sigmar
H. G. Sigurðsson
Mrs. Jane L. Sveinsson
Miss Margaret Sveinsson
Mrs. Ingibjörg Sveinsson
Jóhann Sæmundsson
Mrs. Norman K. Stevens
Mrs. Kári Thorsteinsson
Óli Thorsteinsson
G. H. Thorkelsson
Mrs. Grace Thorkelsson
Mrs. Lára Tergesen
Mrs. J. Ágústa Tallman
Mrs. Guðrún Thompson

**Meðlimir „Öldu" árið 1953**
**Blaine, Wash.**

Sigurður Arngrímsson
Þórhalla Arngrímsson
Margrét J. Benediktsson, heiðursmeðlimur
Sigurjón Björnsson
Ágúst G. Breiðfjörð
Rósa Casper
Andrew Danielson
Bertha Danielson
Guðm. Davíðsson
Hólmfríður Davíðsson
Gísli Guðjónsson
Ágústína Goodman
Hólmfríður Guðjónsson
Guðmundur Guðbrandson
Elín Guðbrandson
Guðmundur Guðmundsson
Helgi Sigurður Helgason
Guðmundur P. Johnson
Margrét Johnson
Jóhann G. Jóhannsson
Sólveig Jóhannsson
Sigríður J. M. Johnson
Rúna Johnson

Thorbjörg Johnson
Helga Július
Magnús Guðlaugsson
Ólína Guðlaugsson
Albert E. Kristjánsson
Anna Kristjánsson
Jón Laxdal
Kristín Líndal
Anna Lyngholt
Einar Símonarson
Stefán Skagfjörð
Dr. H. S. Sigmar
Margrét Sigmar
Helgi Steinberg
Kristín Steinberg
Herdís Stephanson
Jóhann J. Straumfjörð
Bella Straumfjörð
Sólveig Sveinsson
Dagbjört Vopnfjörð

**Þjóðræknisfélag Íslendinga**

Tilgangur félagsins er að efla, eftir því sem við verður komið, samband og samstarf Íslendinga heima og erlendis. Stofnað 1. desember 1939.

**Félagatal 1954**
**Stjórn**

Dr. Þorkell Jóhannesson, háskólarektor, forseti
Ófeigur J. Ófeigsson, læknir
Dr. Sigurður Sigurðsson, yfirlæknir
Kristján Guðlaugsson, hæstaréttarlögmaður
Dr. Steingrímur J. Þorsteinsson, prófessor

Forseti Íslands, herra Ásgeir Ásgeirsson. Bessastöðum

**Ævifélagar**

Fanney Benónýs, Hverfisgata 57 A
Friðrik Magnússon, stórkaupm., Vesturg. 33
Kristján Gestsson, framkv.stj., Smárag. 4
Sigfús B. Bjarnason, stórkaupm., Víðimel 66
Haukur Thors, framkv.stj., Smárag. 16
Kjartan Thors, framkv.stj. Smárag. 13
Ólafur Thors, forsætisráðherra, Garðastræti 41
Richard Thors, framkv.stj., Sóleyjarg. 25

**Reykjavík**

Aðalsteinn Guðmundsson, afgr.m., Hofsvallag. 15
Alexander Jóhannesson, prófessor, Hringbr. 57
Ingi Árdal, kaupm., Lokastíg 7
Ársæll Árnason, bókbindari, Sólvallag. 31
Ásgeir Ásgeirsson, præp. hon., Sólvallag. 51
Ásmundur Guðmundsson, biskup, Laufásveg 75
Árni Benediktsson, forstjóri, Reynimel 23
Árni Friðriksson, fiskifræðingur, Höfn, Selt.
Ásgeir Ásgeirsson, kaupm., Karfavogi 44
Ágústa Sigfússon, frú, Sólvallag. 11
Bjarni Jónsson, framkv.stj., Laufásveg 46
Bjarni Bjarnason, læknir, Máfahlíð 30
Bjarni Benediktsson, ráðherra, Blönduhlíð 35
Bjarni G. Magnússon, bankaritari, Landsbankanum
Bjarni Björnsson, stórkaupm., Miklubraut 38

Björn Snæbjörnsson,
stórkaupm.,
Öldug. 3
Björn Þórðarson, dr. jur.,
Hringbraut 22
Björn Gunnarsson,
skrifari,
Fjölnisveg 13
Valtýr Blöndal,
bankastjóri,
Hávallag. 11
Eggert P. Briem,
fulltrúi,
Flókag. 29
Bergur Jónsson,
pípulangningamaður,
Bjargarstíg 17
Benjamín Einarsson,
verzlunarmaður,
Öldug. 30 A
Bæjarbókasafnið
Bergsveinn Bergsveinsson,
vélstjóri,
Laugateig 7
Dagfinnur Sveinbjörnsson,
fulltrúi,
Kjartansg. 7
Davíð Ólafsson,
fiskimálastjóri,
Mararg. 5
Árni G. Eylands,
stjórnarráðsfulltrúi,
Sóleyjarg. 35
Einar B. Kristjánsson,
húsasmíðameistari,
Freyjug. 37
Einar Gíslason,
málarameistari,
Bergstaðastræti 12 A

Einar Pétursson,
stórkaupm.,
Smárag. 1
Einar Guðmundsson,
stórkaupm.,
Garðastræti 47
Einar Stefánsson
frá Möðrudal,
Hringbraut 50
Elínborg Lárusdóttir,
skáldkona,
Vitastíg 8
Einvarður Hallvarðsson,
fulltrúi,
Hátún 7
Eggert Steinþórsson,
læknir,
Mávahlíð 44
Eggert Kristjánsson,
stórkaupm.,
Túngötu 36
Eyjólfur Þórðarson,
símamaður,
Barónsstíg 27
Egill Vilhjálmsson,
forstjóri,
Laufásveg 26
Egill Sigurgeirsson, hrl.,
Hringbraut 110
Eiríkur Guðmundsson,
fulltrúi,
Njálsgötu 84
Friðgeir Björnsson,
stjórnarráðsfulltrúi,
Hringbraut 65
Freysteinn Gunnarsson,
skólastj. Kennarask.

Fríða Þórðardóttir,
saumakona,
Þórsg. 1
Guðmundur Guðjónsson,
kaupmaður,
Langahlíð 25
Guðm. R. Oddsson,
forstjóri,
Laugaveg 61
Guðm. Kr. Guðmundsson,
skrifstofustjóri,
Bergstaðast. 82
Guðm. Þórarinsson,
verkstjóri,
Hamarshúsi
Guðm. Ófeigsson,
skrifstofustjóri,
Barmahlíð 5
Guðm. Vilhjálmsson,
forstjóri,
Bergstaðastr. 75
Guðm. Benediktsson,
bæjargjaldkeri,
Grenimel 39
Gunnar Einarsson,
prentsmiðjustjóri,
Garðastr. 34
Gunnar Guðmundsson,
verktaki,
Lindarg. 23
Guðrún Guðlaugsd., frú,
Freyjug. 37
Guðrún Jónasson,
kaupkona,
Amtmannsstíg 5
Garðar Gíslason,
stórkaupm.,
New York, U. S. A.

Gísli Jónsson,
alþingismaður,
Ægisgötu 10
Gísli Guðmundsson,
tollvörður,
Sogavegi 122
Gísli Gíslason, fulltrúi,
Drápuhlíð 1
Guðbrandur Magnússon,
forstjóri,
Ásvallag. 52
Gústaf A. Sveinsson, hrl.,
Melhaga 16
Gústav A. Jónasson,
skrifstofustjóri,
Garðastræti 40
Jón Hafstein, tannlæknir,
Brávallagötu 16
Helgi Hjörvar,
skrifstofustjóri,
Suðurgötu 6
Hallgr. F. Hallgrímsson,
forstjóri,
Sóleyjarg. 29
Helgi Lárusson, forstjóri,
Skeggjagötu 4
Halldór Halldórsson,
arkitekt,
Drápuhlíð 12
Helga Sigurðardóttir,
skólastjóri,
Drápuhlíð 42
Hannes Þórarinsson,
læknir,
Sóleyjarg. 27
Hermann Jónasson,
fyrrv. ráðherra,
Tjarnarg. 42
Ingvar Pálsson, gjaldkeri,
Öldugötu 54
Indriði Indriðason,
rithöfundur,
Stórholt 17
Ingimar Jónsson,
skólastjóri,
Vitastíg 8
Jón Loftsson, forstjóri,
Hávallag. 13
Jón Ó. Gunnlaugsson,
fulltrúi,
Veltusund 3
Jón Dúason, dr. jur.,
Þingholtsstr. 28

Jón Þórarinsson,
cand. pharm.,
Langholtsveg 92
Jón Emil Guðjónsson,
framkv.stj.,
Túngötu 47
Jón Sigtryggsson,
dómvörður,
Ásvallagötu 5
Jón Eiríksson,
sölumaður,
Lækjarg. 12 B
Jón Þorvarðsson, kaupm.,
Öldugötu 26
Jón Maríasson, bankastj.,
Ægissíðu
Jón Sigurðsson,
skrifstofustjóri,
Hólavallag. 7
Jón Sigtryggsson,
aðalbókari,
Fálkag. 22
Jóhann Þ. Jósefsson,
fyrrv. ráðherra,
Berg. 86
Jóhanna Friðriksdóttir,
fyrrv. yfirljósmóðir,
Barónsstíg 63
Júlíus Jónsson,
innheimtumaður,
Grandavegi 39 B
Jakob Jónsson,
sóknarprestur,
Engihlíð 9
Jakob Erlendsson,
fulltrúi,
Þórsgötu 3
Gísli Johnsen,
stórkaupm.,
Túngötu 7
Jónas Kristjánsson,
læknir,
Gunnarsbraut 28
Jónas Jónsson,
fyrrv. ráðherra,
Hávallag. 24
Jónas Sveinsson, læknir,
Bergstaðastr. 67
Jóhannes Guðfinnsson,
gjaldkeri,
Blönduhlíð 2

Snæbjörn Kaldalóns,
cand. pharm.,
Laugaveg 92
Kristinn Stefánsson,
læknir,
Miklubraut 46
Kristján Hannesson,
læknir,
Skaftahlíð 15
Kristján Einarsson,
forstjóri,
Smárag. 3
Kristján Kristjánsson,
borgarfógeti,
Ránarg. 18
Lárus Sigurbjörnsson,
fulltrúi,
Tómasarhaga 12
Lárus G. Lúðvígsson,
framkvæmdastjóri,
Hagamel 10
Daisy Lúðvígsson, frú,
Hagamel 10
Leifur Haraldsson,
skrifari,
Langahlíð 7
Leifur Ásgeirsson,
prófessor,
Hverfisg. 53
Lestrarfélag kvenna
Magnús Jónsson,
prófessor,
Laufásvegi 65
Magnús Stefánsson,
Laugarásvegi 65
María Maack,
forstöðukona,
Þingholtsstræti 25
Magnea Þórðardóttir, frú,
Berstaðastræti 86
Margrét Guðmundsdóttir,
tannsmiður,
Freyjug. 38
Matthías Þórðarson,
fyrrv. þjóðminjavörður,
Vonarstræti 8
Jakob Möller,
fyrrv. sendiherra,
Hólatorg 2
Nikulás E. Þórðarson,
verkamaður,
Baldursg. 31

Sigurður Nordal, sendiherra, Baldursg. 33
Oddur Jónsson, framkv.stj., Grenimel 25
Oddur Björnsson, afgreiðslumaður, Laugavegi 130
Oddur G. Guðjónsson, hagfræðingur, Flókag. 55
Ólafur H. Sveinsson, forstjóri, Mímisveg 8
Ólafur Lárusson, prófessor, Tjarnargötu 14
Ólafur Jóhannesson, læknir, Njálsgötu 55
Ottó J. Ólafsson, fulltrúi, Bollagötu 14
Páll Zophoníasson, alþm., Sóleyjarg. 7
Pétur Jónsson, gjaldkeri, Drápuhlíð 1
Carl Ryden, kaupm., Eiríksg. 29
Ragnar Ólafsson, hrl., Háteigsvegi 26
Ragnar Jónsson, hrl., Tjarnargötu 22
Kristján J. Reykdal, fltr., Guðrúnargötu 10
Sigurður Sigurgeirsson, bankaritari, Lækjarg. 3
Sigurður Kristinsson, fyrrv. forstjóri, Bárug. 7
Sigurður Jóhannsson, kaupm., Freyjug. 43
Sigurður Haraldsson, efnisv., Njarðarg. 49
Sigurður Ólason, lögfr., Langahlíð 7
Sig. Hólmsteinn Jónsson, blikksmíðameistari, Mímisveg 6
Sig. Jónasson, forstjóri, Miklubraut 3
Sigríður Valdimarsdóttir, skrif., Birkimel 8 B
Sigurjón Danivalsson, forstjóri, Reynimel 47
Sigurjón Sigurðsson, fulltrúi, Laufásveg 38
Stefán Ólafsson, læknir, Laugaveg 144
Samvinnuskólinn
Sigurvin Einarsson, framkvæmdastjóri, Mjóuhlíð 2
Sveinn Helgason, stórkaupmaður, Snorrabraut 85
Sigurbjörn Á. Gíslason, prestur, Ási
Thor Jensen Brand, Barmahlíð
Jón Thordarson, forstjóri, Barmahlíð 23
M. Scheving Thorsteinsson forstjóri, Laufásveg 62
Tómas Guðmundsson, rithöfundur, Bergstaðastræti 48
Gunnar Thoroddsen, borgarstjóri, Aragötu 8
Jakob Thorarensen, rithöfundur, Ljósvallagötu 10
Tryggvi Ófeigsson, útgerðarmaður, Hávallagötu 9
Valtýr Stefánsson, ritstjóri Laufásveg 69
Viggó Nathanelsson, fulltrúi, Skipasund 27
Valdimar B. Valdimarsson bílstjóri, Víðimel 23
Valdimar Kr. Árnason, pípulagningamaður, Vitastíg 9
Vilhjálmur Þ. Gíslason, útvarpsstjóri
Victor Gestsson, læknir, Bólstaðahlíð 5
Viðtækjaverzlun ríkisins
Benedikt G. Waage, kaupmaður, Laugavegi 59
Vilhjálmur Þór, forstjóri, Hávallagötu 1
Þjóðminjasafn Íslands
Þórður Kristjánsson, kennari, Blönduhlíð 33
Þóroddur E. Jónsson, stórkaupmaður, Hávallagötu 1
Þorgeir Sveinbjörnsson, forstjóri, Drápuhlíð 28
Þorsteinn G. I. Árnason, vélstjóri, Túngötu 43
Þorsteinn Þorsteinsson, fv. hagst.stj., Laufásveg 57
Þorkell Ingibergsson, byggingameistari, Víðimel 19
Þórarinn Gr. Víkingur, skrifari, Ljósvallagötu 8

**Gullbringu- og Kjósarsýsla**

Emil Jónsson, vitamálastjóri Hafnarfirði
Þóroddur Guðmundsson, kennari, Hafnarfirði
Loftur Bjarnason, útgerðarmaður, Hafnarfirði
Hlynur Sigtryggsson, veðurfræðingur, Keflavíkurflugvelli
Jón M. Guðmundsson, bústjóri, Reykjum
Halldóra Sigurjónsson, frú, Kópavogi
Sigfús Halldórs frá Höfnum, skrifari, Kópavogi
Eyjólfur Jóhannsson, forstjóri, Sólbakka

**Mýra- og Borgarfjarðar-sýsla**
Bókasafn Akraness
Bændaskólinn á Hvanneyri
Einar Kristleifsson, bóndi, Runnum
Vigfús Guðmundsson, Hreðavatnsskála
Haukur Jörundsson, Hvanneyri

**Dalasýsla**
Haraldur Kristjánsson, bóndi, Sauðafelli
Brynjólfur Haraldsson, bóndi, Hvalgröfum

**Snæfellsnesssýsla**
Jóhannes Kristjánsson, útvegsbóndi, Rifi

**Barðastrandasýsla**
Guðm. Guðmundsson, bóndi, Skáleyjum
Sýslubókasafn V.-Barðastrandasýslu
Einar Sturlaugsson, prófastur, Patreksfirði
Bókasafnið, Flatey á Breiðafirði
Jón Jóhannsson, bóndi, Mýrartungu

**Ísafjarðarsýslur**
Jóh. Gunnar Ólafsson, bæjarfógeti, Ísafirði
Árni Matthíasson, umboðssali, Ísafirði
Elías J. Pálsson, kaupmaður, Ísafirði
Bókasafnið, Ísafirði
Ragnar H. Ragnar, söngkennari, Ísafirði
Gísli Vagnsson, Mýrum
Jóhannes Davíðsson, bóndi, Neðri-Hjarðard.

**Strandasýsla**
Andrés Ólafsson, prófastur, Hólmavík
Guðm. Í. Valgeirsson, bóndi, Bæ
Lestrarfélag Árneshrepps

**Húnavatnssýslur**
Sigríður Kolbeins, prestsfrú, Melstað
Bókasafn Vestur-Húnavatnssýslu
P. V. G. Kolka, héraðslæknir, Blönduós
Jón Þórarinsson, bóndi, Hjaltabakka
Guðmundur Gíslason, skólastjóri, Reykjaskóla
Jakob B. Bjarnason, Síðu
Jón Pálmason, alþingismaður, Akri

**Skagafjarðarsýsla**
Jón Sigurðsson, alþingismaður, Reynistað
Arngrímur Sigurðsson, bóndi, Litlu-Gröf
Lestrarfélag Goðdalssóknar
Hróbjartur Jónsson, bóndi, Hamri
Magnús Bjarnason, kennari, Sauðárkróki
Sýslubókasafnið
Bessi Gíslason, bóndi, Kýrholti
Halldór Benediktsson, Varmahlíð
Tóbías Sigurjónsson, bóndi, Geldingarholti
Lárus Arnórsson, sóknarprestur ,Miklabæ

**Eyjafjarðarsýsla**
Guðrún Björnsdóttir, frú, Siglufirði
Þorm. Eyjólfsson, konsúll, Siglufirði
Bókasafn Siglufjarðar
Sigurður Stefánsson, prófastur, Möðruvöllum
Menntaskólinn á Akureyri
Amtbókasafnið

**Þingeyjarsýslur**
Friðrik A. Friðriksson, prófastur, Húsavík
Jónas Egilsson, verzlm. Húsavík
Karl Kristjánsson, alþingismaður, Húsavík
Þórir Friðgeirsson, gjaldkeri, Húsavík
Jón Árnason, hreppstjóri, Þverá
Jón Sigurðsson, bóndi, Yzta-Felli
Þorm. Torfason, bóndi, Birmingsstöðum
Lestrarfélag Hálshrepps
Ari Sigurbjörnsson, bóndi, Máskoti
Örn Sigtryggsson, bóndi, Hallbjarnarstöðum
Árni Jakobsson, bóndi, Skógarseli
Jón Haraldsson, bóndi, Einarsstöðum
Konráð Erlendsson, kennari, Laugaskóla
Páll H. Jónsson, söngkennari, Laugaskóla
Þór Pálsson, bóndi, Halldórsstöðum
Þórólfur Jónsson, bóndi, Hraunkoti
Hallur Þ. Hallgrímsson, Hólum
Jónas Snorrason, hreppstjóri, Þverá
Guðm. Kristjánsson, bóndi, Núpi
Helgi Kristjánsson, bóndi Leirhöfn
Björn Kristjánsson, fv. alþingismaður, Kópaskeri
Páll Þorleifsson, sóknarprestur, Skinnastað

**Múlasýslur**
Gísli Helgason, bóndi, Skógargerði

**Skaftafellssýslur**
Guðlaug Andrésdóttir, Kerlingardal
Stígur Guðmundsson, Steig

